# Gras-nytiar

eda

Gagn þat, sem hverr buandi madr getr haft af þeim ósánum villi-jurtum, sem vaxa i land-eign hanns

handa fáfródum búendum og grid-monnum á Islandi

skrifat Arid 1781.



---

Syr. 40, 24. Augad girniz blóma og fegurd, enn umfram hvert-tveggia grænann jardar gróda.

---

Prentat i Kaupmannahofn, 1783.
af August Friderich Stein.



# Til Lesarans.

Af því at alldingarðs rækt hefir litlar frammfara vonir her vestra við sió-síðuna at so komnu, þar eð bæði lands-lag, jarðar grunnr, og útróðr, giora nockra hindrun þar i, og þó þurfa eingvir menn helldr mat-urta brúkunar, enn þeir, sem annars lifa allt árið um kríng á fiskætum, enn hellst um vetr, á sama mat-fángi, ósolltúðu þráu og feitu, dags daglega at mestu; þá hefir eg tekið mer fyrir, at telia upp þær einar villi-urtir i bæklingi þessum, sem at nytsemi þecktar eru, og hafa islendsk kenningar nöfn, at þeir menn, sem verðr hóflega meint af einhvoriu tilfelli, viti at nýta ser i hag-

inn, þat sem siálfkrafa vex fyri fótum þeim, því opt má vid því meini i tíma giøra umkostnadar laust, sem sídan verdr ófært, þó læknar se lángt at sóktir, med dýrustu lækningum; og þar at auki, at sió-menn mættu þeckia þær maturtir sem villar vaxa hiá þeim, til at bæta med matar ædi sitt, þat sem óhollt er, og siófarendum er full naudsyn þar til; nockrar af þessum urtum hafa franskèr og adrir orlogs-menn útlendskèr fengid stundum her hiá mer, eda safnad siálfir, til hverrar mid-dags máltídar, á medan þeir hafa legid her inni á firdinum, og kallad ser þat ómissandi til heil-næmis. Margar af þeim má og sallta nidr til vetrar forda, sem her hefir reynt verid, og vel tekiz, med því moti geta þær mest drýgindi giort buandanum, og þar á ofan heilsubót. Enn þó nockrar af þeim kynnu at metaz einar saman fyrir hardinda fædi, og lett-

lettmeti þá er þó sá útvegr áradilegri, helldr enn husgángs bónbiorg, þockalegri enn hrossa kiots át, og saklausari enn stulldr. Þessara nærstu ára hallæri mættu og synaz ærin orsök, at safna sem mest má öllu því á sumri til vidværis, sem hvor kann at fá, bædi fyri siálfan sig, og líka þeim til biargar sem vid vanar-vol ganga. Eingi madr má her vænta at finna talldar allar íslendskar jurtir, hefi eg þær einasta nefndt, sem til nytsemdar eru brúkadar híngat og þángat um land, edr og so i ódrum löndum, og eg hefir um lesid, enn ecki hinar, og dylst eg ecki vid, at meir enn helmingr innlendra villi-urta er her ótalinn, eg er og fyrir allra hluta sakir ófær at giora fullkomid urta-safn og registr yfir Ísland, eda Floram Islandicam, enda mun so líka hvor búfastr madr vera, hellst á útskogum lands, enn þetta villdag væri betra enn ecki, fyri þá sem

leita nytsemdar einnrar i urta þeckingunni, fyri búmanni, og ei veit eg fleiri þess-slags jurtir her á landi; fáeinar urtir eru her nefndar, sem eg hefir aldrei sied, og hvorgi vaxa hvar eg hefi komid um land, er þat helst i Austfiordum, sem þeirra er von, þær eru taldar i Reisubóck Obser-vatorum, um Island; því eg þykiz vita at þær urtir se þar alkendar, þá vilda eg nefna þær, ef skie mætti, at einhvor aust-firdskr sæi bæklinginn, edr hinir sem urt-irnar þeckia, og þær vaxa hiá.

Islenskt nofn þessara urta hefir eg af eigin heyrn i samtali vid adra menn; nockrar þær algengnustu þeirra kendi mer fyrstr at þeckia Vice-Logmadr Eggert sál. Olafsson, samt þeirra friófganar hátt og mismun; þær flestar eru innfærdar i hanns Lachanologiam; líka hefir eg sama manns dáinn ágrip, (her um 2 arkir) um Isl-ands urtir, hafdi hann skrifad nockud meira

meira þar um, sem ecki er lengr til. Latinsk nøfn urtanna hefir eg tekid af Flora Svecica Hr. von Linne ridddarans af enni sænsku leidar-stiornu, og urta-registri Hr. Dr. Johanns Gerhards Kønigs, sem þryckt er vid ádr nefnda reisubók. Hin onnur utlendsk nøfn, donsk, þydsk eda nordsk hefir eg flestoll tekid úr Flora Norvegica Biskups Gunneri.

Þat veit eg vel, at allr fiølldi gamallra urta-bóka, bædi þrycktra og óþrycktra sem morgum manni flækiaz um hendur, missmuna her frá, enn þeim sem eigi vita þess von, kann eg segia þat, at nú eru komin ny og onnur nøfn á margar urtir, samt þeirra kenningar nøfn og merki sett vid fastari skordur, en adr var; margfølld reynsla hefir og kent mønnum at þeckia med frekari vissu þeirra kraft og verkan.

Hvad her er skrifad vm þetta skdast talid, þá er meir enn helmingr þess tekinn af minni eiginni, granna minna og annara merkra manna reynslu, þó er hit margt, sem eg hefir hvorki reynt ne vitad reynt, þat hefir eg tekid úr nýustu urtabókum lærdra manna, hvoria eg hefir endr og sinnum á nafn nefndt. Nockrir menn hafa ádr fyrri skrifad her i landi, um læknis urtir, og fleira, sem vaxtar ríkid af ser gefr: Sr. Jon Dadason i sinni Gand-reid, Sr. Dadi Steindórsson, og fleiri, enn þessir menn hafa allann fiollda talid af þeim urtum, úr þydskum og latinskum bokum, er vort land hefir alldrei fædt, líka dó sú vitneskia út med þeim monnum, þegar dóu sialfir, er einginn nema þeir þecktu urtirnar, eptir því nafni, sem til var vísad.

Her med læt eg fylgia þriú registr, fyrst islendsku urta-nafnanna, þó þær se

ádr

ádr taldar eptir stafrófi, þvî þær verda fliótar fundnar í einu lagi: þar næst eru látinsku urta-nöfnin, i ødru registri, þeim til greida sem látinu kunna, eda látinskar urta-bækur hafa: seinast er registr yfir verkanir jurtanna, hvar vísad er til tolunnar, er vid hvoria urt hefir skrifud verid.

Nafnid bæklingsins er ecki mikid umtals efni; menn hafa her i landi kallad gras-nytiar allt gagn þess sem vex sialfkrafa, ósáid á jord; so verdr þat skilid i kyrkna máldogum, þar sem þær hafa eignaz gras-nyt á annars manns jørdu, gras hafa forfedr vorir kallad allann ávoxt jardar, nema skógar tre og sveppa; enn i dag kollúm ver nockra lichenes fialla-grøs, mariu-grøs, munda-grøs, já þeir fyrri menn kolludu þáng-kynin fioru-grøs: enn sú adgreining, sem lærdir menn giora nú á grasi og urtum, var þeim ókend, og

einginn lagamadr mun banna buanda, at afna ser þar nyt=urtum, sem hann á friálsa gras=nyt. Eg ósка heils hugar at lesarinn lifi sæll, vid grøsin græn, og geti þetta mitt smak ordid hønum at gagni, eins og gras=nytiar hafa mer ordid, þá gledr þat mig alla æfi, þángat til vid leggiumz, at sofa sætt og vært undir grænni torfu.



Adal



I.

## Adal = bláberia = lyng.

*Vaccinium uliginosum, vitis idæ Anophorum, Myrtillus sempervivens. Octandria monogynia.*

Danir kalla: Bøller, Bølleber.

Þydskir: Trunkel eda Tunckel = beeren.

Ber þessa lyngs hafa þægann smeck, og etaz því giarnan med rióma edr ødrum ymislegum miólkur = mati, ellegar líka med vín = saupi.

Þau má þurka, og brúka so á vetri, í stadinn fyri rosinur, eda þurkud vínber.



Þau má meria og láta so liggia nockra daga, hvar ei er miøg kallt; þá súrnar þetta mauk, og geriz; fær þat þá sterkann svartann lit, sem er gódr at lita skinn. Þó verdr liturinn varanlegri, ef menn láta koma i beria løginn nockud af járn-svarfi, jarn-rydi, eda jarn-viktrili, og litid alún, þar eptir standi þetta mauk tvo eda þriá daga á hlyum stadi, þá síaz þad, og er borid á skinn, eda skinn søt, sem eingin feiti er i, því annars taka þaug ecki á móti neinum gódum liti, og verdr sá litr at eingvu verri, enn almennr danskr skinn litr, á þeirra svørtu fotum.

Þennann siada løg má líka fyri blek brúka, sem vel má nytia, enn er þó ecki gott á bækur, eda þá skript, sem lengi á at hallda ser, og vid at vara.

Þegar adal-bláberia-lyng er i blómstri, sem alment kallaz sætu-koppar, þá má taka laufin med blómstrinu og so mikid af leggnum, sem ecki er trenad, brúka þat sem thee, og

i þess





i þess stad; þykir þat mørgum gódr smeckr, og líka bætir þat qvef. Þetta thee kalla sviar gott medal til at orsa blódrás um líkaminn: item at bædi þat, og berin líka, se góð á móti hollds veiki og stein-sótt. Gunn.

Adal-bláberia lauf gefa gulann lit, enn berin fallegann lit raudleitan, þegar þaug eru sprengd, sodin, og garnid, sem litaz á, af ullu eda líni, þar nidri i, med alúni, edr ein hvoriu ødru sem festir; því annars er sá litr laus.

Finnar giøra gódann ost af þessum berium, hvorium Linne, riddarinn af leidar stiørnunni, hrósar. Þeir flóa hreindyra miólk, taka vel af skán og sengiu, blanda þar saman vid adal-blá-beria musli, og koma øllu samt i þurkada hrein-dyra maga, sem þeir hafa til þess aptr bleytt; hengia so magann upp og þurka lengi, til þess ostur-inn er ordinn hardr.

Zinche segir, at þydskir mat reidi þessi ber, med því móti: þeir sióði þaug i vatni



eda miólk, þá hreinsi þeir þaug, bæti þar vid sykri og nelliker, vid molldu braudi, eda bøkudu hveiti degi; er þá þetta allt saman frammborid á einu fati og so etid.

Víni kann madr at gefa fagrann lit, med þessum berium, nær þat er sett á þaug.

Enn segir Dr. Zinche, at þessi ber se svalandi á sumri, nockud samandragandi: bædi ny og þurkud berin se gód vid blódgángi, og annari lif-syki: at rótin þurkud, og malin i duft, eydi holdfúa úr sárum, og lækni þaug, sidan vel: at vatn eda løgr berianna se gódr fyri menn, sem hafa heita kolldu; lika se þat fyri børn, sem hafa bólu eda flecku-sótt, þegar þau drecka hann.

Gullsmidir i Þrándheimi, bruka þessi ber, til at sióda silfr i, so þat fái sinn hvíta lit.

Bædi adal-bláber og bláber, halda menn at spilli tonnum, ef at þaug eru miøg etin, og mørgum manni gióra þaug tanna kul.

Þat

Þat hefir eg reynt, at eg hefi á á einni ferd hér vestra, etid adal-blá-ber næsta því á hvórium degi í hálfan mánud, med miólk, eda rióma, og þat mikid um sinn, eda nær hálfa máltíd, og fundux mér augun daprari nockurn tíma þar eptir, nær eg var heimkominn.

II.

## Arbi.

*Alsine media, Morsus Gallinæ, Decandria Trigynia.*

Danir kalla: Arve, Jord-Arve, Hønse-bid, Fugle-Græs, Fugle-Snerre.

Þýdskir kalla: Hünerdarm, Hünerbiß, Meyrich, Vogel-Kraut.

Þetta gras geldr þess hiá oss, at þat er audfengid, og kemr óbodid inn í aldin-gardana, at óvilia vorum, enn er þó samt þarfa-gras, þegar vel er med þat farid.



Arbi tekinn ádr enn hann kemr i blómstr, og tilbúinn rett eins og súpukál, er hin hollasta og miúkasta fæda, fyri sóttlera menn, helst þá sem ei eru frier fyri koldu-syki. Þat er þeim líka hollr matr, sem hafa veikann maga, ellegar og so rírnunar sótt. Hefir þessi jurt vidlíka smeck og verkan, sem spinat, þá hún er eins tilbúin. Þetta hefir eg reynt, enn hitt hefir eg heyrt, at arbi etinn, sem fyrir segir, stilli allslags Blódgang.

Vid osmiklu blód-þyckni qvenna veit eg arbi hefir dugad heittr i potti, og sem bakstr vid lagdr. Hann er og so eins brúkadr, at leggia yfir alla harda bólgu, því hann mykir vel.

Arba-fræ er gott hænsa-fódr á vetrum, og eykr þat frióvsemi þeirra, vegna þess næma salts, sem i því er, má því hæglega safna á sumrum, því arbinn hefir marga fræ-púnga ofan eptir leggnum, sem gefa fræ hvoreptir annann allt sumarid.

Dr.





Dr. Zinche hrósar arba, at hann se falldrar og votrar náttúru: at vatn af hon- um brent, se rett gott at taka til sín i heitum siúkdomum, til at kæla: utvortis lækni hann hita-þrúngin augu, lagdr vid eyru og gangn-augu: nyr arbi, sodinn i gódri kiöt-súpu, se gódr vid lungna og rirnunar- sótt: lögr arbans verki hid sama.

Arba-fræ þurt má mala, og med ödru mioli til braudgerdar brúka.

Vid kann brúka nockrir nyann marinn arba, at koma þeim út, sem Gunnerus biskup skrifar.

## III.

## Argriótz-mosi.

*Conferva fluviatilis. Cryptogamia.*

Nordmenn kalla: Tagl-slinka.

Þessi mosi má brúkaz sem kaldavesliß mosi.

**Arin-nefia, v. hrossa-puntr.**



IV.

## Augna-fró.

*Euphrasia officialis. Euphragia. Didynamia. Angiosperma.*

Danir kalla: Øien-Trøst.

Tydskir: Augen-Trost, Tage-Leucht.

Þessi urt er ein af þeim, sem dreifir og sundrar, og er í beisk at smeck.

Einkanlega er þessari urt eignadr kraftr til at lækna þrútin og óskyr augu: hún er þá marinn, og lögr hennar í augu borin, qvölld og morgna. Líka er þat til bragds tekid, at menn setia vín á urtina, og drecka þat sídan, og þat segia menn hafi sama krapt at lækna augu; hún má og marin yfir augu leggiaz. Hr. von Linne er sá einn madr, sem eignar henni minni kraft enn adrir, i þessu efni, sem nú var mælt: enn her þykiz eg, med mörgum fleirum, sem reynt hafa, vera sannfærdr um gott gagn hennar, vid sár, og stird eda döpur augu.

Þessa

Þessa urt má i humals stad bruka, til øl-gerdar; og hefir hún þá ena somu verkan vid augna-veiki. Þat øl segia menn smacki vel, styrki høfud og minni, hreinsi heilann, lækni sundl og svíma.

Þat er líka rád, at þurka þessa urt vel, mala hana sídan sem kaffee, blanda þeirri mylsnu, vid gott hvítt syker, og má þa hvert er vill, taka til sín milsnuna, eda dreifa henni i augun.

Extract af þessari urt, ellegar vín eda brennivín, sem á henni hefir stadid, halda menn hollt, og at þát lækni vel gulu-sótt, og eydi vessum.

Augna-fró er gott at reykia, sem tóbak, bædi eina um sinn, og líka saman vid annad tóbak.

Zinche kallar þessa urt, þá allra bestu augna lækning, sem til se á medal allra jurta; þegar hún se þurkud og malin i dupt, sídan i fenikel-vatni til sín tekin, á hvoriu qvølldi, þá bæti hún þeim siónina aptr, sem ádr hafa þó mist syn sína.



Þessi urt vex i votlendi og móum, hún hefir borit her heim i hnausi og torfi, enn hefir þá ei lifad, vid þurk i veggium edr þaki, nema til jafnlengdar árs.

V.

## Balldurs = brá.

*Cotula fœtida. Anthemis, Cotula matricaria inodora.* Koenigii *Syngenesia Polygynia superflua.*

Dan. Gaase-Urt, Gaase=Dild, Camel=Blomster.

Tydsk. Kroten=Till, Hund=Till.

Þessi urt er her so friófsom, at langtum meira ómak þarf til þess at eyda henni, hvar hún er einu sinni innkomin, enn at planta hana hiá ser um sinn. Af því hún er ecki einasta ónytt fódr fyri bú=pening manna, helldr spillir hún líka ødru fódri, bædi at því leiti, hún þornar torvelldlega, og

líka





líka þótt hún þorni með öðru heyi, þá samt gefur hún því óðaun so mikinn, at þat verðr varla peningi at nytium: er þat best hun vaxi þar, sem jarðpetti má missaz fyrir hana, og þar sem náttúran hefir um girt með eyði sandi, holtum eða vötnum, annars færir hun sig út víðs vegar, helst i lausri jörð.

Urtin hefir þó sína gagnsemi; únga má hana til bua á vori, sem annað supukál, enn upp frá því at blómstur-knappar eru farnir at myndaz, er hún miklu lakari (eins og flestar aðrar urtir); með þessu móti til búinn, er urtin góð fyrir óhreinan maga, og líka konum, sem hafa stadið blóð; hún hefir mykiandi og vermandi kraft.

Köldu-siúkum mönnum kalla menn gott at taka til sín daglega, sem svarar spón-blaði, af blómstur-knoppum þessarar urtar.

Lögr hennar, með vatni salti, og nockurri fliótandi feiti, er góðr til klysturs.

Urtin



Urtin greidir þvag=rás, eydir stein=sóttar efni, og einkanlega drepr orm i idrum manna.

Hún rekr burt flær, þadan sem hún er þurkud geymd. Blómstur þessarar jurtar marid ofani miólk, brúka menn at leggia yfir kyli, bólgu og fleiri eymstur.

Se þessi urt sodin i víni, og þat druckid, segia menn at þat leysi frá konum daudt fóstr, eptirburd, og stadid blód.

Þat sama vín qvølld og morgna druckid, sem svari godum sopa, kallar Zinchen gott vid vats=syki.

Urtin úng á vori, er søxud og marin saman vid egg, þar af gióriz pønnu=kaka, sem sami madr segir, at se halldin gód fyri þá menn, sem hafa innann=tøkur og idra qveisu, samt fyri módur=syki qven=fólks.

Hún er gód vid briost=veiki manna og høfud=sundli, samt gulu og uppdráttar=sótt. Þat sama verkar líka løgr hennar, og vatn af henni. Gunn.

Þeir





Þeir sem hafa nidurfalls=sótt, drecki edik, sem balldurs brá var i sodin, hellst med litlu hunángi, þat ver þá fyri þessari sýki.

Tídit qvenna leidir þat, at fylla lerepts=poka med marda balldurs=brá, sióda hann nockud i vatni, og leggia so vid qvidinn.

Þat styrkir höfud, at þvo þat i seydi af balldurs=brá, þat seydi er líka gott at þvo med því óhrein sár.

VI.

## Barna=mosi.

*Sphagnum palustre, molle, ramis deflexis squamis capillaceis. Cryptogamia.*

Dan. Hvid=Mos. (Som voxer i Moradser.)

Þessi mosi er sá finasti og smá=gerdasti af öllum mosa tegundum. Framar enn ann=arstadar vex hann vid Deildartúngu hveri, i Borgarfirdi. Reisubók Íslands pag. 175.

Hann

 

Hann er kalladr barna-mosi, því hann er brúkadr i voggur undir born, hvar til hann er vel hentugr, helst þar born eru fóstrud i slaga húsum; þar eydir hann því óheilnæmi sem slaginn kann at verka bornum, enn gefr þeim betri og nátturlegri hægindi, enn flest annad, sem þar til brúkaz.

Barna-mosin má og brúkaz til yfir- og undir-hæginda, kodda og sænga.

Af ollu mosa kyni er þessi hinn besti, at búa um ymsa hluti i honum, sem langt eiga at sendaz, til at veria þá mol og mocku, so sem helst eru allskyns aldin, dyra felldir og fugla hamir, enn vel verdr mosinn at vera þurkadr, ádr enn hann brúkaz til þessara hluta.

Ecki logar þessi mosi i elldi, og því er hann gódr, at binda þá leirveggi, sem elldi skulu mæta, so sem eru hlóda-kallar, elld-stór, reyk-háfar, ón-stofur; og i þessu er hann ollum odrum mosa tegundum betri.

**Bein-vídir**, *Salix arbuscula*, siá **Vídir**.

VII.





## VII.

## Beiti = lyng.

*Eirica vulgaris. Octandria monogynia.*

Dan. Lyng, Liung, gemeen Lyng.

Tydsk. Gemeine Heide.

Eins og nafn þessarar urtar tiáir, er hún góð smala beit, bædi á vetrum og sumrum.

Vatn af blómstrum þessa lyngs, segia menn lækni augna=verk og rauð augu, á þaug ridid; enn til sín tekid, skal þat lækna idra qveisu.

Fóta=veikir menn, og nidurfalls=siúkir, hafa gott af at giora ser bad af því vatni, sem beiti=lyng var i sodid.

Þetta lyng er gott at bera i fiár=hús, bædi til at hallda fe hreinu, og lika til at áuka áburd.

Enskir bændur brúka lyng þetta i humalsstad, þegar þeir brugga øl; og fiall bygda Skotar brúka þat i rúm sín, snúa þeir þá øllum rótum nidr.



Seydi af þessu lyngi er kallad gott medal vid stein-sótt, og fleirum siúkdomum, sem þar vid eiga skylldt.

Þetta lyng brúkaz med jafna, at lita gult.

Bædi kyr og hestar geta lifad á þessu lyngi, enn allra best saud-fenadr, sem verdr þar af ullar mikill og feitr; at vitni Zinckens, trúa þydskir menn þessari beiti-lyngs verkan sem ver.

Blód og bar þessa lyngs, er riúpna fædi, og má því lika brúkaz fyrir hænsna-fódr.

## VIII.

## Beria-arbi.

*Arenaria Peploides, Alsina marina, Decandria Trigynia.*

Dan. Strand-Arve, (med Portulaks Blade.)

Af þessari urt má giora graut, sem af káli; enn þa þarf at leggia til eitthvad sem tekr væmuna af, er þessari feitu urt fylgir; ei sist er gott þar til kúmens gras úngt, eda kúmenid siálft, ellegar hvann-gras.

Fyri nordan land giøra menn dryck af urtinni, þeir setia á hana nockra syru, til þess hún kemr i gáng; enn þá sá løgr er genginn, síaz hann og pressaz frá henni, og blandaz med vatni, ádr druckinn er. Reisub. pag. 677.

Bædi naut, saud-fe og hestar eta giarnan þessa søltu og søftugu urt i Norvegi, skrifar Gunnerus: her hefi eg sied naut ein eta hana, enn eigi annann pening.

## Bialla v. Mari-kiarni.
## Bióla v. Fióla.

## IX.

## Birki, eda Biørk.

*Betula alba, Monæcia Tetrandria.*

Normenn kalla: Biørk, Bierk.

Danir: Birk. Þydskir: Birken.

Þegar birki er skært i gegnum børk, og allt inn at mergi, med bor-jarni, þá fá

 menn



menn þann lög, sem kallaz birki=vatn; giör=
iz þetta med vaxandi túngli á vori, ádr enn
birkid hefir skotid laufum. Menn setia pípu
í boruna, og rennur þá út þessi vökvi i ker=
nockud, sem undir er sett, er þá lögrinn
likr miöd hunangs blandnum: strax sem saft=
in er útrunninn, skal reka birki nagla i holuna
aptr, því annars er hætt vid at tred deyi.
Af því vort birki er so smátt, þá mun þat
ei vera ómaks vert, at taka vatn af því,
nema ef litid eitt væri til lækninga þar af at
fá. Þetta vatn er blod=hreinsandi, segia
menn þat eydi holds=veiki, gulu=sótt og
fóta=veiki, item öllum þeim meinsemdum,
sem fylgia blödru=steini, þvi þat brytr hann
strax og sundr leysir. Birki=vatn, nær
þat hefir gengid og med sykri, er sælgætis
dryckr og verkar þat sem ádr er sagt.

Taki madr birki=börk, þurki hann,
melie, og hnodi saman vid miöl, baki sídan
til brauds og eti, þá stillir þat braud vel
allann blód=gang.

Birki=





Birki-lauf um Jons-messu tekid, gefur gulann ullar lit, enn þó betri saman vid jafna. Strøm.

Børkurinn litar vel skinn, lika ullar verk og net-garn, hefir allt þetta sídan þann kost, at mølr sækir sídr at því, súnar líka og rotnar lángtum seinna. Vor birki-børkr dugir ei til húss þaka, fyri tród; þó hann se gódr þar til i Norvegi, af Normanna stóru biørkum.

Avøxtr birkisins, sem heitir biarkan, hefir miøg samandragandi krapt, og er því seydi af biarkaninu þeim gott, þeim sem hafa laust lif, og þó betra rauda-vin, sem biarkanid hefir nockra stund i legid.

Birkilauf, snemma tekid á vori, og vel þurkad vid vind, má brúka i stadinn fyri theebou, og hefir vidlíka verkan.

Birki-aska gefur góda lút til sápu og fleiri hluta.

Birkisins Tophi crispi, sem normenn kalla recke, enn ver vidar-nyru, eru



hiá þeim brukadir til skó-sóla og hnif-skafta.

Gamlann birki-bǫrk má brenna á flǫtu járni, og kemr þá þar út af nockr olia, sem er góð at bera á ǫll eymstr og sárindi.

I Kurlandi giǫriz gulr farvi af birki-laufi, sem kallaz alment skutt-gelb. Menn taka nytt og smátt birki-lauf, seyda þat i katli einn tíma, bæta þar sídan vid nockru alúni og malinni krít, sióda þat enn aptr, og láta setia sig. Þar eptir hella menn vatninu af, enn þurka hid þyckva i skugga, og brúka sídan eptir þǫrfum, sem annann farva.

Russar giǫra vid-smior af birki-berki; þeir taka þann ellsta bǫrk, sem þeir kunna at fá, fylla pott af hǫnum, so allr bǫrkur-inn standi upp á endann, láta þar yfir hlemm, med gati i midiu, hvolfa þessum potti ofan yfir leir-pǫnnu, bera mó umkríng so ei leggi nockra gufu út, kynda sídan elld umkríng pottinn, sem nockud litid skeinmiz

þar

þar vid, rennr þá vid-smiørid eda olían i gegnum gatid á hlemminum ofan i leir-pønnuna. Nyr børkr er her til ónytr. Þessi olia giørir góda lygt af þeirra ledri.

Nockrir menn hafa kallad birkid skilnings tre (gods og ills); því lim þessa trés er brúkad til at hirta børn med, (og stundum þegar midr ser elldra folk), so þaug fái skilning at greina gott frá illu og illt frá gódu, at þau fylgi þessu enn fordiz hitt. Þat tre sem þetta verkar, má heita skilnings-tre.

Bædi birki-lauf, og birki-øsku lút ver ofta fyrir ormum, og laufid giørir þá gula at lit, ef seydi af því, er blandad i miólkina, sem oftr afgióriz.

Brum og lim, birkisins, er rett talid med bestu heitar-gædum saud-fiár á vetri, og fyri því giørir vor løgbók rád.



X.

## Bláberia = lyng.

*Vaccinium Vulgare*, *Myrtillus*, *Vaccinium nigrum*, Gunnero.
*Octandria Monogynia.*

Dan. Blaaber.

Þydsk. Heidelbeeren, Blaubeeren.

Þessi ber etaz giarnan medmiólkur mati, og þá eru þaug þæg og kælandi.

I Norvegi þurka menn þessi ber i bakstur=ofni, enn þeir sem hann ecki hafa, mættu giøra þat i potti, geyma þaug sídan, og krydda súpur med, hvar þaug eru sodin nidri i, sem sagt var um adal=bláber.

Gullsmidir brúka líka þessi ber, eins og adal=bláber, til at sióda i silfur; til at giøra svartann lit, eru þessi ber betri enn adal=bláber, eins tilbúin.

Øllum bláberium er kent um þat, at þaug spilli augum og tønum, giøri tann=kul

og

og hardlife, ef at þaug eru of miøg etin, mín reynsla sannar þat líka.

. Svíar lita blátt med þeim; sá litr er so til búinn: taka skal einn pott af bláberia legi, frekan sopa af ediki, 1 lod af alúni, og hálft lod af kopar=gialli (squama æris), lát þetta krauma saman, lát so verkid, sem litaz á koma þar i, og sióð at nyu. Sídan tak þat upp úr aptr, þurka i audu lopti, og þegar þat er þurt, er þat blátt ordid. Vili menn hafa dökk=blátt, þá má blanda gall=eplum þar vid, enn vili menn liós blátt hafa, þá brúka menn ecki kopar=giallid.

Enn adra medferd hafa sumir svíar: þeir taka ny bláber, og meria þaug i sundr. Ullar= eda lín=verk, sem litaz á, láta þeir vøkna i alúns=vatni, og leggia þat sídan saman vid berin i pott, og sióda alltsaman, tilþess menn sia þad se full=litad, þurka sídan, og seinast lita aptr i lút. Þessi litr verdr blá=lifraudr, og er fastr litr, sem ei følnar, brúkaz i Svíaríki helst til socka og vetlinga. Tønning.



Málverks farva fá menn úr legi þessara beria bláan, þegar þar við bætiz alún og gallepli. Gunn.

XI.

## Blá=gresi.

*Geranium Robertianum, montanum Gruinaria, Gratia Dei* (Germanorum.) *Monadelphia, Decandria.*

Dan. Storke=neb.
Þydsk. Storch=Schnabel.

Þessi urt grædir sár, barkar og dregr saman; hún dreifir saman hlaupnu blodi, við løgd at utan verdu.

Se hún sodin i víni, og þat innteki, eydir hland=stemmu og stein=sótt, líka stillir hún klæda=føll qvenna.

Løgr hennar segia menn lækni krabba=mein i konu brióstum, med þvi at draga út alla olisian þar frá; og eins hreinsi hún ønnur sár. Zinche.

Se þessi urt soðin i smiöri, er þat góð smurning við skurfur og ákomur barna.

Með blá-gresi lita konur svart ullar verk.

Rótin malin i dupt, og þat i nasir tekið, stillir nasa-Blóð. Þegar hún er steytt með ediki og sallti, og lögð við iliar, læknar hún heita kolldu; eins tilbuin segia menn hún lækni lika eitrað bit, allra qvikinda.

## XII.

## Bláklucka.

*Campanula rotundifolia, patula.*

*Polyandria, Polygynia.*

Norm. Blaa-Klokke, Blaa-Bieller.

Dan. Smaa-Klokker.

Þydsk. Kleiner wilder Rapunzel.

Blomstur þessarar urtar, gefa bláann lit, með hendi núin; en soðin gefa þau grænann lit. Utanlands er og búinn til grænn málara litr af þessum blómstrum.



XIII.

## Bleikar = kúlur.

*Boletus Pallidus. Cryptogamia.*

Norm. Mad = Sopp. Dan. Pilse.

Þydsk. Stein = Pilz.

Þessi sveppr er miøg líkr reydi = kúlum, optaz nockud minni, og eru halldnar bestar af øllum æti = sveppum, gefa bædi bestu lygt, og besta smeck; þessar kúlur vaxa helst i røku hallendi i móti nordri, eda norrænni átt einhvørri.

XIV.

## Blódberg, Blódbiørg, Brádberg.

*Serpillum, Erpillum, Thymus, Didynamia, Gymnospermia.*

Dan. Vild Thymian, vor Frue Senge = Halm.

Þydsk. Qvendel, Qvendelken, Feld = Qvendel, Feld = Kummel.

Þessi urt hefir ágætann krapt til at styrkia sinar. Hvørslags vín, sem á

þessari

þessari urt hefir stadid nockra stund, og sídan druckid, læknar sina-drátt, þat sama læknar og qvef, hreinsar og styrkir høfud, þynnir blód, læknar uppþembing og hardlifi þeirra manna, sem etid hafa mikid af hørdum mati; þat vermir kaldann maga og styrkir hann.

Dúkr i þessu víni vættr og vid lagdr høfud manns, bætir øngvit og svima, høfudverk og hettu-sótt.

Seydi af þessari urt, sem thee druckid, er gott vid hósta; læknar øl-syki þeirra manna, at morgni druckid, sem ofdruckid høfdu vín at qvølldi; þat sama ørfar svita, og er gott brióst-veikum mønnum.

Blódberg má sióda i poka, og leggia þann sama heitann vid bein-verki; er reynt gott medal.

Se þessari urt strád á gólf, eda reykt med henni i húsum, ellegar hún seydd i vatni, og sama vatni dreift um húsid, flya þadan flær.



Blódberg marid og lagt vid gagn=augu, eydir høfud=verki, og bætir svefnleysi. Zinche.

## XV.

## Blód = rót.

*Tormentilla erecta.*

Norm. Teppe=Rood, Blod=Rood, Mundskoll=Rood.

Dan. Tormentil, Rodme.

Normenn seyda þessa rót i miólk, i móti lif=syki, og blód=sott, bædi manna og fenadar. Færeyingar brúka þessa rót til at verka skinn, og feita svín.

Se rótin þurkud og malin i dupt, enn þat tekid i nasir sem tóbak, stillir nasa=blód, og læknar sár i þau látid; tiggi menn þessa rót, er sagt hún lækni munn=svida, og øll sárindi i munni.

Nidar=ósa menn fá døckleitann purpura lit á ull sina af þessum rótum. Gunn.

Løgr þessarar urtar eda rótar, opnar lifur og lúngu, læknar gulu. Urtin og rótin marin med ediki, og vidløgd, læknar lidaverk, útbrot og þrota.

## XVI.

## Bólu-Þáng.

*Fucus vesiculosus, caule compresso in vesiculam dilatato. Cryptogamia.*

Þetta þáng er hentugast af øllum sjaar urtum til at safna saman i hauga, og láta funa nidr til áburdar túna edr urtagarda; hvar til loptid i þess bólum hialpar líka mikid.

Hr. Strøm helldr þetta þang Rocellas, sem gesi raudan lit ullar verki. Her hefir þat verid reynt, eptir forskrift Linnæi, og hefir þó ecki enn tekiz.



XVII.

## Brenni = netla.

*Urtica urens, Monœcia Tetrandria.*

Norm. Brænn = Nott, liden Brænn = Hætte v. Næsle.

Dan. Edder = Nelde.

Þydsk. Nessel, Zeiter = Nessel.

Netlan hefir þann kraft, at seydi af henni opnar vel hland = gang, og ny ung netla etin i víni, eydir hland = steini i manni. Vid tann = verki er og gott at tiggia netlu.

Fyrstu knappar netlunnar eru á vori etnir sem kál, og med því i Svíaríki; segia menn þat hreinsi blód um þær mundir. Strax sem hún vex meir, er hún óæt.

Netlu løgr læknar sár, þat giørir og rug = miøls = deig af hønum tilbúid. Hann stillir líka bóld úr sári.

Netlu = fræ er halldid gott, at reka orma fra manni, líka er netlu = rot i sykri sølltud, gód vid gømlum hósta og gulu = sótt.

Umslag

Umslag af netlu dreifir, þat er gott at leggia vid lida verki, fóta verki og eins vid lima-fall.

Vid svefn-syki skal strikia med netlu, til þess rodnar, þvo sidan i vormu vini, þá kemr tilfinning aftr, ellegar smyrie med vid smiori.

Netlu-blad med salti marid, hreinsar og grædir gomul sul sár. Hennar seydi læknar kláda.

Konur gióra sér hollt bad, at sitia yfir af sterku netlu-seydi, þat orsar tida-blód. Þetta allt eignaz brenni-netlu.

## XVIII.

## Bronu-grøs.

*Orchis bifolia*, *Satyrium albidum*, *Gynandria*, *Diandria*; *Syngenesia* Koeningii.

Norm. Qviithublom, hviit huvendel. Nat-Fioler.

Dan. Hvid-Giøgs-Urt, Refnosser.

Þydsk. Stendelurtzel, Knabenkraut.

Þessi urt hefir miog kraft til at styrkia bædi karla og konur til barnlagnadar,

helst



helst rót hennar, sem eykr fiør manna, vard-veitir háfnir qvenna, og styrkir til fædingar i hæfann tíma. Urtin er ilmandi, helst um nætur.

Kólfar undan þessum urtum, þegar menn leggiá þá nya vid illsku kaun, hreinsa þau vel, og láta þaug ecki meir eta um sig. Þeir sømu kólfar i víni sodnir, stilla tída-blód qenna, ørsa hland-rás.

Rótin hefir og kólfa, hvar af annar sockr, enn hinn flytr jafnan ofaná.

Þeir sem vilia brúka þessa urt, láta þann hardari kólsin koma i nockud gott vín, og þegar þat hefir þa á stadid nockra stund, drecka þeir þat.

Adrir láta ʒmatgiøra fyri sig kólfana, edr eta þá hráa i miólk, nockrir eta þá med sykri, eins og annad krydd.

Smyrsl má af urtinni giøra, sem lækn-nar útbrot; enn innvortis er hún gód vid innantøkum og blód-sótt. Linne.

XIX,

## XIX.

## Burkni, Stóri = Burkni.

*Filix foemina, ramosa, frutescens*
*Polipodium dryopteris*
*Est inter classes epiphyllospermatorum*
*Cryptogamia.*

Dan. Lege = Bregne. Þydsk. Eichfarn.

Þessi urt vel þurkud ver músum, mol, og líka súa, þar sem hún er, og því er hún gód at hafa hana i kistum og annars stadar, þar sem klædi manna, og annad þessla gs geymiz, sem hætt er vid at digna.

Se urtin þurkud, og sídan brend, má hnoda af oskunni hnetti, þurka þá, og brúka i sápu stad til lerepta, sem verda þar af velhvit. Vili þeir springa, má hnoda þá saman aptr: þessa brúkan burknans hafa enskir fyrst fundid. Fuldstændig Fruent. Farve = bog pag. 500.



Jardar alldin, sem ecki má springa ut, so sem rætur og kólfar, geymiz vel i þurkudum burkna; eins má geyma egg i hønum, og þó enn betr i øsku hans.

Saftin af rótinni er rett góð lækning vid bruna.

Góð er þessi urt, at strá henni undir pening og ali-fugla, at forda þeim lús: hún er líka góð, at breida yfir sád-reiti i móti nætur frostum.

Grænt má lita med burkna lausi.

Burkni eydir øllun urtum i grend vid sig, hann vex i fastri jørd og súrri, því er vísan um hann qvedin.

*Neglectis urenda Filix innascitur agris.*

A medal þeirra, sem hallda burkna eitrad gras, er biskup Gunnerus Fl. Norv. 29. eptir bumanna søgu á Háloga-landi.

XX.




## XX.

# Burmari.

*Pteris aqvilina. Cryptogamia.*

Dan. Bregne, Flak - Tørn, Reiser-Vaaben.

Þydsk. Farenkraut, Jesus Christ Wurzel.

Þessi urt er med þeim stærstu burkna tegundum, og þeim miøg lík. Hún er hentuguſt at brenna til sápu hnetta og lútar: líka yfir sádreiti at dreifa øſkunni, enn urtina heila og þurra ſkal breida yfir reitina.

Væri nockurs ſtadar ſo mikid af Burmara, at þat væri tiltækilegt at brúka hann til tróds, myndi hann til þeſs velhentugr, væri hann ádr vel þurr.

Þegar rótin er þurkud, og því dupti komid i vond ſár, ſem ei vilia gróa, þat læknar þaug.



XXI.

## Burn, Burni-rót.

*Rhodiola rosea, rosa montana, radix rhodia.* Koeningio, *dioecia; aliis Hermaphrodito mascula.*

Dan. Rosen-Rod.

Þydsk. Rosen-Wurtz.

Hver burn kemr ecki i blómstr, og þá kallaz sú ofrióſa Sára, enn sú frióſa Algar.

Seydi af burni-rót intekid, vermir, þurkar og dregr saman; læknar munn-svida; hreinsar nyru frá sandi, sem steinn af verdr; stillir lif-syki; læknar hofud-verk, og styrkir hofud, og líka hár-voxt, ef at i því er hofud þvegid: logurinn úr blodunum læknar vel ny sár, og stillir blód-ras úr þeim, hreinsar þaug og grædir.

Rótin er gód at leggia yfir ill kaun. Soxud marin og ellt saman vid smior, dreifir bólgu, linar bædi bak-verk, lida-verk, og fleiri sárindi, helst þá volgt er vid lagt.

Rótin

Rótin þurr, lætr vægia i bólgu; hún tekr freknur af hørundi manns, styrkir høfud, vid þat logd.

I barkar stad, til skinna, má burn brúka, og verdr þá þat skinn gulleitt.

Grænlendingar eta þessa rót, og fiall-bændum i Norvegí hefir verid rádid til, at planta hana hiá ser, til mann-elldis: hún er halldin heilnæm holds-veikum mønum.

Þeir sem hafa halldid þessa rót sama og tormentillu, hafa látid hana heita blód-rót.

## XXII.
## Bygg.

*Hordeum. Triandria, digynia.*

Fyrir utan mann-elldi til matar og dryckiar, er þunn bygg miøls velling góð i móti hósta.

Súrdeig af byggi er gott vid brióst-mein qvenna; þat opnar øll kaun, og eydir lik-þornum af fótum manna; og skal þá



salti vid auka. Þat deig er gott med smiøri at leggia vid, þar sem limr er ur lid-um genginn.

XXIII.

## Dverga Sóleyg.

*Ranunculus nivalis, Pygmæus.*
*Polyandria, Polygynia.*

Norm. Sneetiting-Græs.

Fræ þessarar dálitlu sóleygar er besta tytlinga fædi á vorin, sem þá tína þat, sem fallid hefir haustid ádr.

## Dyra-Gras, v. Augna-Fró.

XXIV.

## Einir, Eini-Tre.

*Juniperus communis. Dioecia Monadelphia.*

Dan. Eenebær-Træ.
Þydsk. Wacholder, Wacholder-Staude.
Krammets-Beeren Staude.

Broddar ofan af eini, á vori teknir, og drucknir sem vel sterkt thee, giora hæga opnan

opnan, eda lauſt líf. Þetta ſama ſeydi hreinſar brióſtid, bætir hóſta, ſtyrkir magann, og brytr ſtein; þó giora berin allt þetta betr, til búin og druckin ſem kaffee.

Einiber orſa ſvita, og greida miog alla afrás líkamans; eyda nyrna-ſteini; leyſa ſtadid blód qvenna, og vats-ſykis lopa.

Reykr af eini-berium, eini-blødum, og líka trenu ſiálfu, er þeim hollr, ſem hafa høfud-þyngſl, og verdr þá loftid hollt.

Einiberia beſta verkan er at þynna blódid, hreinſa þat, lækna gulu-ſótt, og ønnur þaug ſiúkleika kyn, ſem blódid hefir ſkulld í.

Brenni-vín ſett á einiber, verdr at hollum brióſt-dropum, þegar þat hefir á þeim ſtadid heillt miſsiri eda lengr, þó er enn betra brenni-vín af þeſsum berium brent.

Einiberia-olia er þar góð ſmurning, ſem ſinar þurfa at ſtyrkiaz, líka hvar upp hefir hlaupid hold af falli, eins vid lenda-verk. Þeſsi olia daglega inntekin, ſtyrkir



høfud og minni; og 4 dropar af henni hafa her verid látnir driúpa i eyra unglings, sem miøg var dauf-heyrdr, og batnadi hønum strax þar eptir.

Norskar konur siódа eini-lauf i vatni, og þvo þar med sín miólkur ílát, þat þykir þeim gefa miólkinni godann smeck og lygt, og láta ilátin sidr súrna. Strøm.

Zinche hrósar miög þessum berium, at þaug se góð til þess at veria kiøt fyrir yldu, þó þat se lengi geymt lin-saltad, so þat skemmiz ecki: at þaug se góð med malte til ølgerdar: at saltid úr eini-tres øsku ørfi hlandrás, bæti vats-syki og miltis-syki: at einir se betri enn allr annar vidr, til at gefa godann smek reyktu kiøti, ef hønum se kyndt undir því.

Sami madr kennir at tilbua einiberia qvodu. Menn taka 12 pund af gódum fullordnum einiberium, sem safnad var i Septembri, hreinsa þaug frá øllu bari og mosski, meria þaug nockud, hella þar yfir

ferfallt





ferfallt meiru af gódu uppsprettu vatni, i pottinn, og sióda þar til berin losna i sundr: þar eptir pressa menn berin vel, og sía løgin i gegnum dúk, so hratid verdi eptir. Nú láta menn þat aptr i pottin, seida þat nockud, og hræra vel i, at ecki vid brenni, þángat til þetta er ordid at þykri qvodu: þegar þessi qvoda kolnar, geyma menn hana sidan i hreinum bauk af gleri eda gódum leiri; og med því moti helldr hún ser heil 12 ár.

Þetta þykir vænt medal i móti morgu meini, og hefir því fengid þat nafn, at heita þydskra manna lif-likn, (theriaca Germanica) þat er gott vid andar-teppu, hósta, svima, upp þembingi, ver drep-sótt og ødrum næmum siúkdómum. Þat læknar visnan, útvortis á borid.

Hübner segir, at þessi qvoda, þynt i sundr, edr uppleyst i einiberia brenni-víni, brúkiz i móti stein-sótt, og kalliz malvaticum Juniperi.



## XXV.

## Eireks = Gras.

*Cochlearia Danica. Tetradynamia siliquosa.*

Norm. Erts = Gras, Erics Gras.
Dan. Liden Strand = Skee Urt.

Þetta er ein skarfa-káls tegund, nockud minni og óvœmnari, enn þat almennilega skarfa = kál, enn somu eda vidlíka verkanar; er her skialldsengnara, vex þó i Straumnesi, á móti nordri, hvar sól skín alldrei á þat; nema um midnœtti, stundar korn, i sumar sól-hverfa vikunni: þetta Eireks = gras hefir nockud hvassara lauf, enn skarfa = kálid, þat má salta á sumri, og mat = búa sem hitt. Nafnid hefi eg tekid eptir Normønnum, því her innlendt fólk, kallar bádar þessar urtir skarfa = kál; enn á strøndum nordr visse eg nockra menn kalla þessa urt arfa = kál, af því at bløðin eru at skapnadi, ei ólík arfa bløðum.

XXVI.





XXVI.

## Ellting.

*Eqvisetum vulgare arvense. Hippuris Cryptogamia.*

Nor. Kierring=Rok, Snel=Graes.

Dan. Stude=Knæ.

Þydsk. Kanne=Kraut, Tauben=Rok.

Þessi jurt er barkandi og grædandi, segr hennar læknar líf=syki: bædi rotin, og urtin siálf, ef vel er marin i milli steina, og stungin i nef manni, eda løgd vid enni, stillir nasa=blód: hún er og so eins tilbúin, gód at leggia yfir sár, qvid slit, og annad kostad á líkama manns.

Ellting hallda menn her ohollt á=saudar=fódr, so at lembdar ær láti þar af fángi; fyri kyr er hún skárri, best fyrir hesta, sem gefr þeim meira fiør, helldr enn varanlega krapta og þol.

Smidir



Smidir brúka þurra ellting, at fægia med og skygna, hvad þeir giørt hafa af horni, tonn eda tre; og líka smídar af þeim miúkari málmum: sama giøra þiónustu-konur, þegar þær hafa ádr hreinsad þá búss hluti manna, sem til vid hafnar og prydis eru brúkadir, og segir Blancardr at sú minni ellting se betri til þess.

Elltingar løgr, víni blandinn, og heitr druckinn, læknar innan kostad, líka hosta og mædi; til hins sama má og so seyda urtina i vatni, og drecka þat seydi: klútr i sama seydi vættr, er gódr at leggia yfir alla heita bólgu, þá siatnar hún.

XXVII.

## Engia-Skóf.

*Lichen arcticus, Grönlandicus.*

*Cryptogamia.*

Nor. Grønlandske Mosse.

Þessa urt má sióda i hlaup, og þá verdr hún manna matr, nærandi vel og holl brióst-

brióst-veikum mønnum: líka þeim sem blóð-sótt hafa.

Grænlendingar brúka hana til matar: hún er þó af øllum lichenibus, óhæfust til matar, því hún verdr traudlega nóg sodin, til góðrar næringar.

## XXVIII.

## Ertur, villi-Ertur.

*Pisum marinum, spontaneum perenne.*
*Pisum arvense, petiolis tetraphyllis.*
*Diadelphia, Decandria.*

Nor. Vilde Erter, Aaker-Erter.

Bædi þessar villi-ertur, og líka hinar, sem híngat til vor flytiaz, eru góðar, at seyða þær i vatni, og og drecka þat seyði volgt, fyri þá sem þiást af nyrna-steini.

Ur því seyði þvegið hørund, verdr fagurt, líka er sama seyði sagt gott, at þvo með því geitna høfuð.

Villi-



Villi=ertur má eins matbúa, sem aðrar ertur; menn segia þær verdi stærri, ef at eru plantaðar i ræktar jörd, þó hefir mer ecki luckaz það her á bæ; enn ske má þat hafi valldið, at eg sádi þeim ecki at haustlagi, helldr á vori, enn sídan feck eg þær ei, so so eg gæti reynt til ostar.

Ertur i vatni soðnar, og af þeim deig giört, læknar, ef við er lagt, bólgu og eymstr, item brióſta=mein qvenna.

XXIX.

## Eyra=Rós.

*Epilobium latifolium. Lysimachia siliqvosa, semina pappofa.*
*Octandria Monogynia.*

Dan. Duc=Urt, med lange Frø=huse og Pile=Blade.

Nor. Lu=Blind, Loe=Blind.

Þydsk. Weiderich=Roslein.

Þessi urt er barkandi og samandragandi, er hún því góð marin, at leggia yfir opin

opin sár, hún grædir þaug: løgr hennar, eda seydi af henni, stillir nasa=blód, og blód=gang, ef hann er i clysteri brúkadr.

Rótin gefr af ser, undir jørdinni marga og stóra tímganar=hnúda, (turiones) hvar af hún friogaz árlega Þessir sømu hnúdar eda kólfar kunna at þurkaz saman vid annad miøl, allra helst til brauda; líka mega þeir siódaz og etaz sem þeir eru: þeir lækna blód=spyu.

Urtin er gód til fódurs fyri naut og saudi, geit=fe og hesta. Mergurinn ur stilkinum er ætr halldinn á Biarma=landi, enn Normenn brúka rótina til flat brauda.

Ló þessarar urtar, er miúk at stoppa med føt, sem silki; og mætti máske spinnaz eda brúkaz med ødru móti, sem bómull.



Seydi af urtinni, druckid sem thee, fær nockud á høfud manns, enn læknar hófud-verk.

## Fardaga-Kál, v. Himin-nióli.
## Felix-urt, v. Velants-Jurt.

XXX.

## Fergin.

*Veronica, Anagallis aqvatica, caule erecto. Diandria Koenigii, aliis Octandria Trigynia.*

Dan. Rank Bekbung.

Þydsk. Groß Bachbungen.

Þessi urt brúkaz bædi til matar og lækninga, á vorin má hún brúkaz fyri salat. Løgr sem af henni pressaz, 4 lód inntekin qvøld og morgna, i heilann mánad, hreinsar salt og seigt blód holds-veikra manna; læknar gúlu- og vats-sótt; ørfar hland-rás, og eydir lenda-steini.

Se

Se þessi urt sodin med ediki og smiori, og so heit løgd vid heima-komu, og adra bólgu, mykir hana og linar.

Sioda má og hana, til plásturs i øli, og leggia hann yfir sár holds-veikra manna, þat grædir vel: hid sama brúka þydskir vid hesta meidsl.

Løgr hennar, segir Hr. Hübner, taki burtu freknur og sumar-flecki af hørundi manns.

Her fellir hún fræ sídast i Julio, og litlu seinna fer hún siálf at falla: hún er her næsta því óeydanleg, i veidi-vatni, og spillir miøg veidinni.

## XXXI.

## Fialldala eda Fialla Fífill.

*Cariophyllata montana, Geum rivale.*
*Icosandria polygynia.*

Dan. Benedict-Urt, (som voxer ved Vand.)
Nor. Botmands-Græs, Botmands Buxer, Tørild.

Af því ad þessi urt likiz nockud fíflinum at skapnadi, þótt hún hafi raudt og hán-

 

gandi blómstr, þá hefir hún fengid hiá oss fifils nafn, og er hún honum þó fiærskylld urt. Eptir dønskom og þydskum hafa nockrir menn tekid þat, at kalla hana Benedicts-urt, enn flestir gefa henni eckert nafn.

Menn segia, at vín, sem stadid hefir á þessari urt, og dregid til sín krapt hennar, þynni blód, dreifi og styrki útvortis áborid; at þat druckid lækni qvef, og hreinsi magann, eydi bland-stemmu: menn segia og so, at þat styrki bædi høfud og hiarta.

Urtin er gód at leggia i øl, sem vill surna, betra er þó at seyda hana, og hella því seydi saman vid ølid, þat fær þar af nyann krydd-smeck, og súrinn minkar.

Vid kølldu-syki segir Tonning, at svíar brúki þessa jurt, og verdi þat morgum fátæk-um manni at gódu gagni, þeim sem ei megna at kaupa dyrari lækningar.

Rótin urtarinnar tuggin, styrkir tann-holld, og festir tennur: bædi blodin og rótin, má brúkaz i thee stad.

XXXII.





XXXII.

## Fialla = Grøs.

*Lichen Islandicus, Muscus catharticus sive Islandicus. Cryptogamia.*

Dan. og Nor. Islandsk Mose, Heedei Græs, Heede-Mose, Field-Græs.

Þessi grøs, eda rettar at segia mosi, er vor besta lækning, i móti uppdráttar og rirnunar-sótt, samt óllum uppþembingi, hráa og annari veiki magans.

Þat er marglega reynt, at hálft fædi at vortom af þessum grøsum, med miólk vel tilbúid, hefir halldid vid heilsu, hreysti og hamsi manna, lengr og betr enn flestr annar matr.

Remma sú, sem er utan á blodum grasanna, mykir vall-gáng, eda laxerar nockud, og því hafa útlendskir kallad þennann mosa, Catharticum; enn remman fer frá þeim, þegar vatn stendr á þeim nockra stund, ádr enn þaug eru matbúin.



At drecka seydi af þessum grøsum, eins og af thee, er ypparlegt vid uppþembingi, og ormum i maga, eda þørmum manns.

Grasa-grautr, vel sodinn i hlaup, med miólk, er miøg nærandi og styrkiandi matr, og læknar þá líf-sýki.

Þessi mosi litar ull, so hún verdr gul, sem alkunnugt er, og margir brúka.

Til þessara grasa heyra margar tegundir, sem eru engia-skóf, geita-skóf, hreina-mosi, klóungr, kræda, mariu-grøs, munda-grøs, trølla-grøs, og enn fleiri sem flestum eru ókendari.

Allir Lichenes her taldir, eda fialla-grasa tegundir hafa vidlíkann krapt, og allir eru þeir gódir brióst-veikum mønnum, enn hreina mosi, mariu-grøs og trølla-grøs þurfa miøg mikla sudu, ádr þaug verdi vel æt, einkanliga fyrir óstyrkvann maga, því þessar grasa tegundir skyldu gioraz til nærandi hlaups eda límqvodu, sem menn kalla Gelee.

XXXIII.





## XXXIII.

## Fiall = drapi.

*Betula nana repens. Monoecia Tetrandria.*

Dan. Liden lav Birk.

Nor. Kierring = Riis, Field = Riis. Field-rap, Biørk = Vesla, Birkepors.

Fialldrapa blød hafa enn betri krapt, enn birkis, at lita gult, og kunna ei sidr at brúkaz fyri thee, enn þaug stærri birki-lauf.

Tród á hús gefur fiall = drapi betra enn annad birki, því hann er af náttúrú þurrari og vesla minni; hann er og so lag betri þar til: enn vel þarf at þurka hann til þess, eins og allt annad tród.

Þat er skadi, at rífa mikinn fiall = drapa, því hann er besta hrís til þess at veria hollt, so þaug blási ei upp, og gefr hann ødrum frœum skiól, sem undir hønum geta tímgaz; enn hanns løngu tágar veria hann lengi siálfann, se hann ei rifinn af mønnum.



Karfir gioraz af fialldrapa tágum i Noregi, og þar brúkaz þær tágar líka til lebanda.

Fialldrapi er halldinn óhollt fódr öllu sauð-fe, nema þat fái sæ-vatn eda saltpekil at drecka.

XXXIV.

## Fianda-fæla.

*Filago impia, Cotonea. Gnaphalium dioicum. Syngenesia, Polygamia superflua.*

Nor. Blodsot-Gras, Muse-Gras.

Dan. Muse-Urt.

Þydsk. Ruhr-Kraut, Feld-Kätzlein, Engel-Blumen.

Þessi urt hefir af mørgum verid kølluð Helleborus, og henni eignadar þær dygdir, sem Helleboro til heyra, enn nú eru menn búnir at sleppa þeirri villu.

Urtin er bindandi og barkandi, læknar buk-laup eda líf-sýki og blódlát qvenna, utvor-





utvortis vid løgd, þegar þat er um of: løgr þessarar urtar segia menn lækni briósts mein¦qvenna, og líka qverka⸗mein.

G. Voyts kallar þessa urt, Hypericum, Androsæmon, Fuga dæmonum, herba perforata, og segir at hún se besta grædi⸗jurt til sára. Nockrir sióda hana i terpentin⸗oliu, og brúka so fyri sára smyrsl.

Innvortis til sín tekin, leidir hún og utrekr hland⸗stein, stadid blód qvenna, og líka kølldu.

Sídan fianda⸗fælan, eda grá⸗jurtin, verdr ecki borin med ser i strúti, (því kaupmenn hafa lagt af at færa híngat strút⸗hettur, enn vorir hattar geta ei hulid hana, so litid á beri), þá eru ryndir menn farnir at kasta óvirding á hennar yfirnátturlega krapt, at reka frá mønnum drauga, og eyda glærings⸗um: hún er og líka her um pláts allt of audfengin, til at verda fyrir átrúnadi, eda hann festi sig á henni.



Løgr blómstranna er sagdr ein besta lækning vid ædi og þung-lyndi, þegar hann er inntekinn.

Se á blómstrin sett brenni-vín, fær þat purpura lit, enn ullar verki gefr urtin gulann lit.

Ef peningr missir jórturs, þá segia menn hann fái þat aptr, nær hann etr þessa jurt.

Hún læknar kláda, útbrot og hríng-orma.

## XXXV.

## Fífa.

*Eriophorum polystachium, Linagrostis.*
*Triandria monogynia.*

Dan. Ager-Uld.

Nor. Myr-Uld, Enge-Duun.

Þydsk. Wiesen-Flachs, Matten-Flachs, Flachs-Gras-

Fífa brúkaz her til at leggia vid kyli, at draga vog úr þeim, og er þat allgott, þá

barid

barid er ecki táid úr fífunni; því barid er þat sem at ser dregr, vidlíka og baunir edr ertur, enn siálf fífan (Pappus) þerrar, og gørir mykina.

Fyri þvara i holgrafin mein (turundas) er og fífa brúkud, og má þat vel nytia.

I hægindi og sessur hafa fátækir menn vel tána fífu, og er hún þó at litlu gagni þar til, því hún verdr næsta því at dupti, fyrr enn at ári lidnu, helst hvar nockr slagi er.

Til qveikia i kerta liós og lampa, er fífan lángtum betri; til elld qveikiu má og fífu brúka, vidlíka sem finu, og þó enn betr.

Þetta gras er fódr bú-smala á medan þat kemr ecki i ló (pappum,) þar eptir er þat ónytt gras, og spillir ødru fódri, saman vid heyid; nema hitni i því, þá þarf þar engva varúd vid, því lóin verdr at hegóma, edr ómerkianlegu dupti, vid hitan i heyinu: enn øll grasa og urta ló er óholl bú-smala.



Norskar meyar spinna fífu saman vid sauda ull, og giøra þar af vettlinga handa unnustum sínum. Tonning.

XXXVI.

## Fífill.

*Dens Leonis Taraxacum, Leontodon. Syngenesia Polygamia æqvalis.*

Nor. Fivel, Kirkegaards-Blomster.

Dan. Munke-Hoved, Preste-Krone, Løve-Tand.

Þydsk. Löven-Zahn, Dotter-Blumen, Münchs-Kopf.

Þegar þessi urt er búin at fella blómstr, fær hún vængia fræ edr ló, sem kallaz þá bisi-kolla, því hún bisaz i hvørium blæ: nockrir kalla hana fífu-kollu, og adrir husfreyu hrellir, því menn segia at bú-peningr grædi sig ecki á sumri eptir þat, at fífillinn er kominn i bisikollu; og enn kalla adrir bydukollu, af skapnadi jurtarinnar ofan til, þegar hún





hún kemr fyrst i fræ, sem þá er uppdregid, eins og byda.

Se klútr vættr i legi þessarar urtar, lagdr sidan yfir heima-komu, edr adra bólgu, linar of hita i henni.

Þessi urt etin, giorir góda tempran blóds; opnar vel lifr og milte; líka er hún god vid kolldu og gulu, samt ollum heitum og fúlum innvortis siúkdómum, setia menn líka vín á hana, og drecka þat sidan.

Seydi af urtinni giorir andlit vel litkad, þótt madr hafi ádr verid blackleitr og dockleitr.

Miólkur-saft þessarar urtar, eda logr hennar losar vortur af holldi manns; skírir líka augu, þegar sú saft er i þaug borin.

Ungu blodin, sem kallaz hrafna-blokur, ádr enn urtin kemr i blómstr, eru hollt salat, og ei verri þar til, enn garda salat, eins tilbúid, og því hafa þydskir kallad þessi blod engia lattúku.

Fífla



Fífla rætur eru gódr og hollr matr sodnar i miólk, til þess hún fer at rodna, og er þá remman burtu úr þeim: enn til at spara miólkina, seyda menn ræturnar i vatni fyrst, þángat til þær missa remmuna, hella því sídan af, sióda þær so aptr lítid i miólk.

Þurka má þessar rætur, melia þær, og giøra braud af þeim, med ødru miøli.

Þat er alhægt at giøra ser reit i sád-gardi, af þessari urt, því hún lætr sig audvelldlega planta, hvar madr vill, og þá fær hún i ræktadri jørd stærri bløð, og so líka lagar fyllri.

Bløðin, sem salat brúkud, sefa blóds hita bráð-lyndra manna, og eru góð vid svefnleysi, á qvolldi etin, mykia vall-gang. Þaug eru einkar góð úngum mønnum, sem i einlífi lifa, þau dempa losta, og endur næra þó; gefa góda melting matar, bædi hrá og sodin. Matbúin sem kál, eru þaug miúkasti matr fyri þá menn sem eru sóttlera, edr hafa solltid úr hófi, so at þeir þola ei annann almennann mat.

Meria

Meria má þessa urt, og leggia við höfuð-verk, lika við bruna, og bætir hún hvort-tveggia; því hún kælir og temprar ofhita, bædi útvortis og innvortis.

Af fegurð þessarar jurtar er komið máltækið, sem menn brúka, þegar hagr manns gengr saman, og er ei lengr i blóma: hann má muna fífil sin fegri.

XXXVII.

## Fim-fingra-jurt.

*Comarum paluſtre, Pentaphyllum ſive Qvinqvefolium paluſtre. Icoſandria Polygynia.*

Nor. Krage-Foot, Krage-foots-gras.

Dan. Fem-Fingers-Urt.

Þydsk. Gänse-Kraut.

Seydi af urtinni er gott gulu-siúkum mönum: þær somu rætur, gefa raudleitann lit, sem þó er ei fagr.



Rótin, i ediki marin og vid-løgd, læknar riſtil, hríng-orma og útſlátt, ſem etr um ſig.

Menn ſegia þat lækni ridu, at þvo opt hendur i legi urtar innar, og láta þær þorna aptr, af ſialfum ſer.

## XXXVIII.

## Finnungr, Myra-Finnungr.

*Juncus ſqvarroſus. Trianandria. Trigynia.*

Nor. Børſt-frytle.

Sviar kalla Borſt-togh.

Þeſsi finnungr er hid lakaſta hey, bædi óhollt, og kiarna litid, ſo naumlega lifir gelld-fe á því um ſtund.

Hvar ſem þeſsi finnungr vex, er jørdin undir ſúr, ſeig og barkandi, optaſt leir-blandin, óhæf til ræktar, nema hún ſe fyrſt med grøftum vel þerrud. Því þeſsi finnúngr

hittiz

hittiz traudlega, nema i fúlum myrum, sem litla edr einga afrás hafa.

## XXXIX.

## Finnungr, Todu-finnungr, Sinu-finnungr.

*Nardus stricta. Triandria. Digynia.*

Norm. Finne-Skiæg, Borst, Busting.

Dan. Sene-Græs, Sive-Græs. Staal-Græs.

Þetta gras gefr lett hey, og traudlega etr þat annar peningr, enn sá sem er vanr vid þat: þat sker af ser, og blódgar þegar þat kemr á vidqvæmt hörund. Fyri saud-fe er þat skaarst, brúkanlegt fyrir hesta, enn vest fyri naut.

Þat er kostr þess, at þat þarf litinn þurk, og skemiz traudlega i hey-gordum.



XL.

## Fióla.

*Viola biflora, sylvestris, flore luteo.*
*Syngenesia monogamia.*

Norm. Vilde gule Fioler,
Field-Fioler.

Þessi fióla mykir og linar verki. Seydi af henni til sín tekid, er gott vid brióst-veiki. Blodin er gott at leggia utan á þrútin augu.

Fióla þurkud og malin i dupt, brytr stein i manni, inntekin; er lika god vid kølldu.

Blómstr urtarinnar, i víni inntekin, mykia og greida vall-gang; bæta hósta, høfud-verk, og lika svefnleysi.





XLI.

## Fiøgra = lausa smári.

*Paris qvadrifolia. Herba Paris. Uva inversa. Aconitum salutiferum. Octandria Trigynia*

Dan. Etbær, Ulvs = Bær, Fireblad, Ugle = Blad.

Nor. Luse = Bær, Ræve = Bær, Svine = Bær, Fiirblad.

Þydsk. Einbeer, Wolfs = Beer.

Løgr eda saft, kreistr úr berium þessarar urtar, hallda menn yfrid gott fyrir augun. Sieu berin sundr marin og løgd vid gømul sár, eru þaug góð til at hreinsa og græda, þaug lækna og so nagl = ætu og aum = neglur.

Beriunum hrósa menn i móti drep = sótt, eitri og sídu = stíngi; enn rótinn skal vera góð, nær hún er mulin, vid innan tokum.

Urtin er svæfandi, og er því varlega brúkandi; þat er søgn manna, at hæns drepiz af henni.



Joh. Linder kennir at lita háraudt, med þessari jurt, menn væta ull í aluns-vatni, og þurka hana aptr: þá taka menn urtina, ádr enn hún kemr i blómstr, sedda hana vel i vatni, og þegar kólnar, kreista hana vel i sundr med hondum ser: þá er ullin lǫgd þar i, og sódid at nyu; þar eptir er af elldi tekid, enn ullin liggr kyrr nidri i til þess kallt er, seinast er hún þurkud.

Urtin vex i búda-hrauni vid Jokul. Vid. Reisub. Islands.

## XLII.

## Fiǫru-grǫs.

*Fucus fastigiatus Lichenoides, coralloides. Cryptogamia.*

Dan. Liden horned Strand-Klever.

Sv. Kräkel.

Þessi fiǫru grǫs eru afvǫtnud, sídan sǫxud vel og sodin i miólk, verdr þar af ætr grautr, sem giorir laust lif, þeim sem eta mikid af honum.

Vid

Vid uppþembingi og hráa i maga manns, er sá grautr gódr; þvi hann er siálfr aud-melltr, og styrkir mellting hardrar fædu; þeim er hann hollr, sem holds-veiki byr i, þvi þeir hafa flestir illa mellting, og tregann vall-gáng.

Þurka má þessi fiöru-gros, bleyta þaug sidan aptr, saxa þá og matbúa med miöli.

## Fiöru-þáng, siá Bólu-þáng.

XLIII.

## Freyu-hár.

*Polytrichum commune, aureum. Adiantum aureum. Cryptogamia.*

Dan. Frue-Haar, Guld-Haar, Jomfrue-Haar.

Nor. Biøn-Mose.

Þydsk. Gûldener Wiederthon.

Þat er sagt um þessa alkendu urt, at hún styrki hár-voxt, og eydi hár-madki.



Hún er sögd góð inntekin fyri brióst-veika menn; líka segia menn, at hún hreinsi lifur og lúngu, lækni gulu; skal þá hennar seydi dreka nockra daga samfleytt: betra er hún se sodin til þessa i midi eda víni.

Hún vex her allvída i húss-veggium, helst þeim gömlu, og prydir þá med sinni fegurd.

Bædi Zinche og Hübner skrifa um þá hiátrú þydskra, at þeir meini hún verie menn galldra syki, og lækni hana; at konur leggi þetta gras i ruggur, i sömu heimskulegri meiningu. Zinche segir þessari urt skuli safna, þegar menn þurfa þess, fyrir sólar uppkomu, er bædi sól og túngl, eru i Tvibura merki.

XLIV.





XLIV.

# Flóar = urt.

*Polygonum Persicaria. Hexandria digynia.*

Nor. Loppe=Gras.

Hydsk. Dür=Wnrz. Flöh=Kraut, Mücken=Kraut.

Dan. Loppe=Urt, Pile=Urt.

Þetta gras vex i aust=fiørdum. v. Reisu=bók Isl. pag. 814., urtinni er sá kraptr eignadr, at høgg=ormar fordiz hana, og sá sem eti nockur blød þar af fastandi at morgni, se frí fyri þeim þann dag, er hún helst á Alpes=fiøllum, og þadan er hún ødrum selld, til fiarlægari stada.

Reykr af urtini rekr burt flær og eitur qvikindi, líka má strá henni á gólf, til somu verkanar.

Blødin hreinsa og lækna sár, lina høfud=verk, og se þaug løgd yfir korn=

 vørur,



vorur, og önnur faung manna, veria þaug allt hvad nálægt þeim er, fyrir ormum og modkum.

Urtin gefr ullar verki gulann lit.

## Fugla-ertur v. Ertur.

## Fugla-túnga v. Selgresi.

## Fylu-rót v. Laukr.

XLV.

## Físi-sveppr.

*Lycoperdon, Crepitus lupi, Bovista Cryptogamia.*

Nor. Fiis Sop. Dan. Ulfe-Fiis. Þydsk. Bovist.

Þegar þessi sveppr er ordinn þurr, kallaz hann kerlingar-elldr, og græde-sveppr: þetta sídasta nafn hefr han fengid, af því hann grædir vel opin sár, sem ei eru

diúp

diúp, og stillir blód-rás ur þeim, enn hvort-tveggia verkar helst rykid sem i honum er; þat er fræ hans: þat rik er lika gott vid ill fóta-sár. Finnar gefa þetta ryk, kálfum vid líf-syki, og blanda því i miólk þar til.

Ol. Borrichius rádleggr, at skera þennan svepp i tvent, og leggia hann yfir æd, sem skorin er i sundr, til at stilla blódrásina.

Þat er allmenn sogn, at ryk ur þessum sveppi þurrum, blindi mann, ef þat kemr i augu hanns.

At hann se eitr, ef han kemr i maga manns, kann eg ecki fyri víst segia; enn rádlegra man at fordaz hanns nautn, á medan reynslan hefir ei helgad hann til manns elldis.

## Gambr-mosi siá Mosi.



## XLVI.

# Geitna-hvønn, Geitna nióli-Geitla.

*Angelica erratica. Pentandria, digynia.*

Nor. Gieet-Qvann, Geede-Joll.

Dan. Vand-Angelik.

Þydsk. Wild-Angelik.

Þessi urt er halldin góð lækning i fóta-veiki, bædi urtin siálf, og rótin steytt eda marin og vid løgd; líka seydi af blómstrum hennar, sem thee druckid. Hun er annars sømu verkanar og almenn hvønn, enn þó krafta minne nockud.

Blød hennar smá, á vori, mega brúkaz sem kál, og er sagt at Sviar giori þat; þykir þeim þat bædi hollt og so líka smeckgott.

Seydi af þessari urt er hallid góð lækning vid skæli og bólgu i hest-kiapti.

XLVII.





## XLVII.

## Geita = skóf.

*Lichen foliaceus imbricatus niger, gelatinosus subtus lacunosus. Cryptogamia.*

Nor. Larv-Mossa.

Þessi stein-mosi er á millium allra þeirra urta sem kallaz Lichenes, hin lim- og næringar-mesta; enn med því ecki er nema i fám stødum nockud tøluverdt af þessum mosa, þá læt eg nægia at vísa til lachanologiu Vice-løgmanns Eggerts Olafssonar. §. 131.

Bókbindara-lím má af geita-skófinni fá, og þat líka betra enn flest lím, sem her fæst af lands eda sióar kyndum dyra-ríkisins.

Fátt helld eg sliótar grædi litla skinn sprettu, enn kotun edr ullar-lagdr, vættr, í geita-skófar hlaupi, og vel umbundid.

Þessi mosi syniz sem hann væri brunninn, þunnr sem pappír, molnar i dupt, ef menn koma vid hann þurrann, verdr því



at taka hann i regni, þar eptir þvo menn hann, og láta hann þorna; þar eptir setia Normenn á hann keitu, og með því móti fá þeir úr geita-skófinni fagur-rauðann fastann lit.

Geita-skófar grautr af miólk kallaz góð lækning brióst-veikum monnum. Secret. Olavius.

## XLVIII.

## Gelldinga-hnappr.

*Statice armeria. Cariophyllus marinus. Pentandria, Pentagynia.*

Nor. Gaase-Blomster.
Dan. Liden Bierg-Nellike, med rund Knop.

Þessi urt er alkend, fogur og mogur. Austur um land brúka fátækir menn, sem ecki eiga annars betra úrkosti, blómstr-knappa þessarar urtar, i sessu-ver, verðr þar af

þægilegt

þægilegt hægindi um stund, enn ecki var annlegt

Urtin er sád = garda, og urta = potta prydi, nær hún er plöntud eda sett þar i.

Nockrir nefna rót þessarar urtar hardasægur, og kalla þær ætar; þær verda sodnar til þess þær mykiaz, og gefa þá góda næring, hraustum manni og heil brigdum.

## XLIX.

## Gleymdu mer ecki, edr Arbi med bláu blómstri.

*Echium vulgare, Myosotis Scorpioides. Pentandria monogynia.*

Nor. Varg = Flab, Ulve = Gab.
Dan. Vild Oxe = Tunge, Slange = Hoved.
Þydsk. Wilde Ochsen = Zunge.

Norskir bændur meria urtina, og leggia yfir sár og fleidr til at græda þaug. Se hún lögd yfir bólgu, mykir hún; og þegar hún er tekin inn, temprar hún blód = skerpu, og

styrkir



styrkir hiartad, hreinsar blód og bætir, læknar litileik, svima og hiart-slátt.

L.

## Gói-bitill.

*Eqvisetum vernum hyemale, caule nudo lævi. Cryptogamia.*

Dan. Hesterumpe, Skau-græs.

Þydsk. Schaft-Hew. Schachter-Halm.

Þessi urt hefir fengid nafn af því, at hún er þat eina sem ætt má finna ofan jardar, af vaxtar ríkinu, i Martio, her innanlands; enn þar i sám, stødum er so mikid at þessum gói-bitli, at mat-furda se i, þá er ecki mikills þar um at geta.

Urtin visnar aptr nálægt far-døgum, hún er nockud vid barkandi, og þó gód at eta i vel tilbúnum grauti, líka hrá, sem salat.

LI.

## Gor = kúla.

*Fungus campanulatus. Agaricus Fimerum. Cryptogamia.*

Nor. Frou = Sopp.

Hydsk. Kröten = Schwam, Padden= Stuhl, Mist = Schwam.

Þessi sveppr hefir illann róm, at hann se banvæn átu; og þat er ei ótrúlegt at hann se miøg óhollr.

Menn segia: at járn verdi hardara, ef gorkulur liggia i herdslu stockinum.

Þessar gorkulur má brúka, til at sióda kopar og messing nidri i, at ná af því grænku.

**Grad = rót v. Brønn = grøs.**
**Grá = jurt v. Fianda = fæla.**
**Gras = laukr v. Laukr.**



LII.

## Gras = vídir.

*Salix herbacea. Dioecia diandria.*

Nor. Field = Mo.

Þessi smá = vídir er eitt hid besta fiár= fódr, enn ecki sæka hestar her so mikid eptir hønum, sem Biskup Gunnerus skrifar um norska hesta.

Her hefi eg reiknad mer 16 klyfiar, af þessum vídi á móti kyr = fódri, fyrir alslags naut = pening; og hefir mer reynst, at eg hafdi ei reiknad yfir, því ein hest = byrdi af þessum vídi, er betri enn hey = kapall.

Þennan vídi má hvort er vill, slá eda rífa, þó er fliótara at rífa hann, þar sem mikid er af hønum; hann er mikid fallegr, med sínu liós = bláa blómstri.

LIII.

## LIII.

## Grá = vídir.

*Salix cinerea, incubacea. Diæcia diandria.*

Nor. Graa = Vie, Selie = Vie.

Kotún þessa vídis med fræinu, er gott at leggia vid vog = mein, sem fífu, enn þegar barid er úr því, er þat langtum betra at fylla med sessur og hægindi, enn fífan. Þat má og brúka til at stappa med á milli fódra, og til enn fleira, sem bómull.

Vidi þennann brúka nockrir til tróds, og þarf þá vel at þurka hann, er hann skástr af øllum vídi þar til, enn þó er ein= inn vidir rett gódr til tróds.

Þessi vídir brúkaz her i hardindum fyrir nauta fódr, og hefir þat luckaz; enn þó er allr annar vídir þar til betri.



## LIV.

## Græði-súra.

*Plantago maior latifolia. Tetandria monogynia.*

Nor. Groe-Blad.

Dan. Veibred, med brede Blade.

Þydsk. Breiter Wegerich, Wegebreit.

Þessi urt græðir vel sár; hennar lögr inntekinn, græðir, þerrar og hreśsir, góðr við qvefi, blóð-sótt og búk-hlaupi, drepr líka orma i manni.

Rótin, i hvitu víni sóðin, segia menn lækni alla bresti hland-blöðrunnar, se hún þá etin.

Blöðrur, sem spans-flugur giöra, þegar þær opnaz, er gott at leggia græði-súru yfir, þá fer sárið strax at gróa; so læknar hún líka og græðir öll önnur sár og ákomur.

Rótin er barkandi, og þurkandi, góð við líf-sýki, bædi manna og fenaðar; og

við

vid kolldu=syki, i dupti eda pulveri inntekin, er hún sumum mønnum holl.

## Gullin=toppa v. Geldinga=hnappr.
## Gvøndar=ber v. Gói=bitill.
## Gvøndar=grøs v. Fiøru=grøs.
## Haddr=sifiar v. Freyu=hár.

## LV.
## Hafrar.

*Avena. Triandria digynia*

Dan. Havre. Þydsk. Haber.

Hafra=velling er halldin hollt og gott fædi þeim mønnum sem veikann maga hafa, og þeim sem hætt er vid líf=syki.

Hafra=miøls deig er gott at leggia yfir lida=mót, sem bólgin eru, og verkia.

Læknar nockrir segia þat einninn, at ef menn taka hafra, steikia þá i pønnu, og



og leggi þá á qvidinn á manni, þá læfni þeir innantøkur og idra-verk.

## Hana-kambr v. Loka-fióðr.
## Hauga-sveppr v. Gor-kúla.

LVI.

## Hellu-hnodri.

*Sedum acre, minus vermiculare. Illecebra minor, sempervivum. Decandria, pentagynia.*

Nor. Skiørbiugs-Knapper, Bierg-Knopper.

Dan. Helle-Knop, Bladeløs, liden Steen-Urt.

Þydsk. Maver Pfeffer, Katzen-Träublein.

Miólk, sem hellu hnodri var sodinn i, er góð við skir-biúgi og munn-fylu; urtin purgerar vel, og læknar líf-syki; saftin þar af giørir hæga uppsølu, hreinsar nyru; við hósta, qvefi og brióst-veiki er urtin alþekt lækning.

Við

Vid holds-veiki er þat gott og reynt ráð, at giøra graut af hellu-hnodra, með nockrum súrum legi, og eti þat sá veiki maðr tíðum.

Ol. Borrichius segir, at læknir nockr. i Lundi, hafi læknad nockur þúsund manna, af illum skirbiúgi, með øli því sem hellu hnodri hafði verið i soðinn.

**Heiða-fifill v. Lifrar-urt.**
**Heiða-blágresi v. Blágresi.**

LVIII.

## Hiart-arbi.

*Thlaspi. Bursa pastoris. Tetradynamia siliquosa.*

Nor. Hyrde-Taske.

Dan. Taske-Urt, Punge-Urt.

Þydsk. Taschel-Kraut, Hirten-Tasche Beutel-Schnitter-Kraut.

Þessi urt hefir límandi og barkandi løg, sem er góð lækning við allskyns blóð-láti, blóð-sótt og sárum.



Sim. Paulli segir, at beri madr urt þessa i hendi ser, ellegar i sock sinum undir ilinni, lækni hún blód-spyu; hún se og góð vid høfud-verki og tann-verki, marin og vidløgd sem deig.

Hiart-arbi er gott fenadar fódr, helst nauta, og hanns fræi er hægt at safna, og sá þvi i moldar-flag at hausti; þar getr madr fengid strax á næsta sumri góda slæu.

Urtin i regn-vatni sodin, þvi sem stál var adr i slockt, og þat vatn druckid, stillir allt blód-lát upp og nidr, og grædir øll innvortis sár og eymstr; væta má litinn þvara, og stinga i nasir, þat teppir nasa-blód; i sama seydi eda legi, er lika gott at þvo ny sár.

## Hiarta-gras v. Hol-urt.
## Himin-blómstr v. Skya-fall.

LVIII.

## Himin = nióli, Himis = nióli, Heimilis = nióli.

*Rumex acutus; lapathum. Patientia, oxylapathum. Hexandria Trigynia.*

Nor. Spids-Heimul, Svine-Rod.

Dan. Rød-Skreppe, Rhabur.

Þydsk. Grind-Wurtz, Mengel-Wurtz, wilde Rhabarbara.

Þessi urt má til matar brukaz, hvort madr vil til súpu-káls eda plock-káls, sem adrir kallar láng-kál: þá er urtin góð at hreinsá blód, og lækna kláda, lika gulu-sótt, og leidir vel þvag.

Se rótin þurkud, steytt, og so inntekin, giörir miúkann vall-gáng, og er gott medal vid skirbiúgi.

Seydid af rótinni, og lika fræid eins brúkad, er gott vid heima-komu: sá sem

 

hefir vond súa=sár, drecki seydid af þessari rót, eda merie hana, og leggi þar yfir, hefir þat velreynst: fræid steytt og inntekid, segia menn at stemmi blód=gang.

Í seydi þessarar urtar má þvo limi, sem hafa kláda og útbrot, helst hendur og fætur, enn þá er best at skera rótina í smá bita, od seyda þá, þar til út af þeim má kreista seiga qvodu, og gnya sídan þessum bitum ofan í kládann og útbrotin, nockrum sinnum, enn bada limina i seydinu, a medan. Þessa bita má og so leggia vid kyli og hríng=orma.

Himin=nióla rætur gefa gulann lit.

Allt kiöt sodid med þessari urt, þykir monnum verda þar af mykra og liúf=fengara.

Rætur þessarar urtar kalla Normenn svina=rót, þvíat svin sækia miög eptir þeim; líka eru þær gott nauta fódr; urtina eta þar fe og hestar, enn svínum er þar gefid at

eta

eta stilk og blod þessarar urtar, ádr saxad og sodid.

Frœ hennar er riúpum og hœnsum fœdi.

Taki madr þessa urt, eda hennar rót, saxi eda merie hana, siódi hana so i nyu smiøri og svíns-feiti, blandi þar vid litlu af brenni-steins blómi; þa þetta er saman sodid, er þat siad og kreist i gegnum dúk, og þá eru þessi smyrsl, besta lækning vid øllum útbrotum. Zinche.

Þessa urt má taka nya, láta hana inn i hlytt fiós, eda annad peninga hús, til þess hún linaz, og grópnar, þá má steyta hana i volgu mortere, og sídan einu sinni á dag, eda hvørt qvølld og morgna, legia hana þanninn tilbúna yfir bruna útslátt, bólgu, átu-mein, og kyli; þat sama læknar og bit eitradra dyra.

**Hióna-rót v. Brønu-grøs.**

**Hlad-arbi v. Veggia-arbi.**



LIX.

## Hóf=blaka, Hóf=gresi.

*Caltha palustris, Polyandria, Polygynia.*
*Cochlearia Danica. Tetradynamia*

Nor. Tremelks=Blomster.

Dan. Koe=Blomme, Enge=Blomme, Smør=Urt.

Þydsk. Wiesen=Blume, Dotter=blume. Butter=Blume.

Menn segia, at þessi urt se hiarta=styrkiande, og er hún þá etin, sem salat; líka má eta hana sem kál, vid kláda, ádr enn hún fær blómstr=knappa á vori.

Hóf=blaka er góð, at leggia yfir bólgu, bædi til at kæla og mykia, líka yfir sár og kaun, til at hallda þeim opnum og hreinum.

Naut eta hana her alldrei, helldr skilia þau hana eptir i beitar landi. Þegar hún fellr úr blómstri, kalla menn mál at byria hey=slátt; Þydskir kalla hana gott miólkur=gras.

Vili





Vili madr kreista loginn eda saftina, úr blóm-blødunum, og siòda saman vid alún, fær madr gult blek.

## LX.

## Hollta-Soley.

*Dryas octopetala, caryophyllata alpina.*
*Icosandria Polygynia.*

Þydsk. Berg- oder Alpen gamderlein.

Blómstr þessarar urtar kallaz hollta-sóley, enn þá urtin er komin i fræ, son eda lo (pappum), kallaz hún hár-brúda, edr hár-mey, enn nedstu laufin kallaz riúpna lauf; því at riúpan lifir á þeim á vetrum.

Þat lauf er gott at brúka sem thee, enn er þó nockud barkandi, þar fyrir hollast þeim sem hafa laust líf.

Seydi þar af er gott fyrir ali-lømb og kálfa at drecka, líka i þáng-graut, fyri menn sem verda at leggia ser þat til munns, þegar annad betra fædi brestr.



Þá þykir riúpna=saup best, er sarpurinn med øllu laufinu, er sodinn þar nidri i, og þá styrkir þat best veikann maga, og stillir líf=syki.

LXI.

## Hol = urt.

*Cucubalus major, Behen album.*

*Decandria digynia.*

Nor. Smelpunger, Akerkaal, Smelle=græs, Hermans=Kaal.

Dan. Skum=Neglike.

Þydsk. Wieder=Stoß.

Bændur i Norvegi þurka blómsturin i skugga; sídan leggia þeir þaug annad hvørt heil, ellegar steytt yfir ristel.

Ny bløđin leggiaz yfir heima=komu, og líka yfir nya skurdi, at græda þá.

Bløđin kunna og brúkaz sem kál, og ræturnur eta menn bædi hráar og sodnar, líka verdr tilbúid braud af þeim.

LXII.





## LXII.

## Hor-blaka.

*Menianthes trifoliata. Trifolium fibrinum, paluſtre, ſive aqvaticum. Pentandria monogynia.*

Nor. Vaſs-Kløver, Jet-Kløv.
Dan. Bukke-Blade, beſke Klever.
Þydſk. Biber-Klee, Sumpf-Klee. Scharbocks-Klee.

Þeſsi urt er halldin einkar góð i móti ſkir-biúgi, og holds-veiki, vid vats-ſótt, og lida verkium, lika fóta-veiki, og þetta ſidaſt talda verkar hún beſt i miólk ſodin.

Hún er og ſo góð vid lima-falls-ſyki, lika qvefi, qveiſu, idra-verki, og þar til vid augna-veiki.

Hún ſtyrkir i móti þreytu, og dreþr orma i mønnum, bædi løgr hennar, preſsadr úr urtinni, og lika ſeydi hennar druckid.



Øl má á hana setia, og verdr þat þá blód-hreinsandi, og hollt þung-lyndum mønnum.

Fátækir menn i Svíariki brúka urtina i humals stad, sem þar af verdr hollt, enn ecki gom-sætt øl.

Beiskt, segia menn, og so verdi braud þat, sem á hallæris timum hefir verid giørt af rótum þessarar urtar; þar til hafa þær verid herdtar, maladar og elltar saman vid miøl af rúgi, edr ødru korn-meti.

Þar segia menn óhætt at rída myrar, sem hor-blaka siest, því hún bindr rótina, so hesturinn sleppr ecki ofann úr henni; þar af kallaz hún reidinga-gras, enn hor-blaka af því at hún er so beisk, at peningr horaz, eda jafnvel deyr út af, fyr enn hann eti hana.

## Høfud-rót v. Burn.





LXIII.

## Hrafna = klucka.

*Sisymbrium Islandicum. Nasturtium aqvaticum, Cardamine amara. Tetradynamia siliqvosa.*

Urtin hefir kringlótt blød; og eydir holds=veiki, því at hún hreinsar blódid, orfar blód=lát qvenna, drepr orma i mønnum, og er þá best ad seyda urtina i misu, og dreka sidan; þat er og sagt gott fyri qvid=slitna menn; líka þat, at meria urtina, og leggia yfir haulin; þanninn er hún brúkud vid allann þrota, til at eyda hønum og dreifa.

Hún giørir svefn=letta menn, þá sem hana eta, og til salats má hana brúka, ádr enn hún fellr ur blómstri á sumri.

Vats=syki læknar hún, se hún søxud ofan i øl; og nær ølid hefir stadid á urtinni, i vel þiettu og vel byrgdu iláti nockra

stund

 

ſtund, dreckr ſá veiki þat øl, og eingvann annann dryck á medan.

Danir og Normenn kalla þeſsa urt Vand=Karſe.

Þydſkir kalla hana Brunnen=Kreſſe.

## LXIV.

## Hrafna=klucka.

*Naſturtium pratenſe. Cardamine pratenſis. Tetradynamia ſiliqvoſa.*

Dan. og Nor. Enge=Karſe, Vild=Karſe, Gøge=Blomſter.

Þydſk. Gauch=Blume.

Urt þeſsi hefir allan ſama krapt, ſem hin næſt talda, og er þó halldin enn ſterkari i ſinni verkan, og hefir líka ſterkari ſmeck; þeſsi vex miøg her i túninu, enn hin ſkamt þar fra nidr vid vatnid. Þeſsi hefir mió og afløng bløð, og er því ſtrax audkend frá hinni, ſem hefir nærri kringlótt bløð, eda nærri því med nyrna mynd.

Seydi

Seydi af badum þessum urtum, er gott at hella ofan i kyr, sem hafa lungna-sótt, edr önnur innann mein.

Þessi urt opnar lifr og millte, hreinsar lúngu, eydir sandi og blodru steini, læknar hæsi og hósta; allt þetta verkar hún best, se hún i midi sodin, og druckin.

Fái madr vanmegn i túnguna, þá skal leggia þessa jurt, ádr marda, vid þunn-vángana.

Þúngadar konur mega anndhvert varlega, edr olldúngis ecki brúka þessa urt, innvortis.

## LXV.

## Hreina eda Hrein-dyra mosi.

*Lichen fruticulosus, perforatus, ramosissimus. Muscus rangiferinus. Cryptogamia.*

Nor. Reens-Mose, Rensdyrs-mose, Hvid-Mose.

D. Greenagtig Mus, med røde Knoppe.

Þydsk. Wild Corallen-Moss.

Þessi mosi er hvitr og finn, vex á þúfum upp til fialla, at mynd sem hiartar horn,



eda flókin birki = krekla, afqvistud; han er holr innan, sømu tegundar og mariu = grøs eda trølla, og er þessum minni, enn hinum stærri.

/ Þegar hann er sodinn i lím eda qvodu, er hann góð lækning brióst = veikum mønnum, og þeim sem kenna uppdráttar = sykis; þá er hann líka gott fædi hvørium manni, se hann vel saxadr, og eitt hvad lett korn=meti med honum brúkad.

## LXVI.

## Hrínga = stør, Hrínga = brok.

*Carex pallescens, spicis pendulis.*
*Monœcia Triandria.*

Nor. Blech = Star.

Þessi stør er úrkyniad star = gresi, sem vex i súrri og barkandi myrar jørd, optaz raud = bleik at lit, safnaz þar med tídum mikil sina, og verdr mikill brúskr allt saman.

Þetta er hid lakasta hey, og óhollt øllum smala, gamla gellda saudi hefi eg vitad lifa á því, og þó ecki vel.

Þegar





Þegar sinan er mikil med hringa-brokinu, þá er best at brúka forn-manna rád, og brenna hana úr land-eigninni; vissi eg einu sinni þat verda manni at óvørum, at elldr hlióp ur kola-grøf i sinu flóa, so hann brann allr upp á minna tíma enn hálfu dagsmarki; á þridia ári þar eptir var þar vaxin upprett og sinulaus stør, enn þó raudbreiskingr, því ecki var flóinn framstúnginn, og var því eins súr og barkandi sem ádr, nema hvad askan hafdi batad rótina.

LXVI.

## Hríng-orma gras.

*Drosera rotundifolia. Ros solis, Rorella. Pentandria Pentagynia.*

Nor. Luse græs, Dug græs, Tætte-græs, Dan. Soel-Dug, Himmel-Dug. Þydsk. Sonnen Thau.

Sú qvoda, sem um mid-degid finst á blødum þessarar urtar, þegar sól-skin er,



brrúkaz til þess, at ríða henni á hríngs orma, vortur og lík=þorn; og því kalla Norskir þessa urt hríng=orma gras, eins og ver.

Hún giorir húðlaust hörund, þar sem hún er yfir lögð; og því er hún skaðleg augum manna, líka óheilnæm innvortis brúkuð, og óholl öllu sauð=fe.

Eptir Látinskum, Dönskum og Þyðskum, kalla sumir þessa urt, sól=dögg.

Bæði Zinche, Hübner og fleiri Þyðskir, hrósa mikið þessari urt, at hún hreinsi blóð, lækni mergruna=sótt, og fleiri innan mein, innteknin; en Gunnerus Biskup ræðr mönnum frá því, at voga hennar inn=vortis brúkan.

## Hris=arbi, siá Hiart=arbi.

LXVIII.

## Hrossa = puntr.

*Gramen scirpoides. Barbatum culmo-tereti, lignescente cavo. Triandria Digynia.*

Þetta gras, sem flestallr peníngr forðaz á sumri, og skilr þat eptir óskert i beitar landi, er líka illt og hart fódr á vetrum; þó eta bædi hestar þat og fleiri peningr.

Þat má vel brúka fyri tróð á hus, ef þat er áðr vel þurkað, og varir þá lengi, án þess at fúna undir torfi; þegar þat er, sem áðr er sagt, vel þurkað, má geyma i því þá hluti, sem ei má mygla ne mølr atkomaz.

Seyði af hrossa=punti, segia menn tempri vel ofhita blóðs, og lostasemi; og at þat se þeim líka þarfr drykr, sem með lángvaranlegri ofdrykkiu, hafa skemt góðann blóð=gáng (circulationem sanguinis) i líkama sínum, þegar þeir vilia snúa frá því óráði.



LXIX.

## Hrossa = þáng.

*Fucus nodosus, caule compresso dichotomo. Cryptogamia.*

Nor. Heste = Tang, Knop = Tang.

Dan. Strand = Klever, med smaae og store Knuder.

Þetta þang er miøg líkt bólu = þangi, enn er liós = bleikara at liti, lengra og hærra.

Bædi hestar og kyr eta þat i húngri, helldr enn bólu = þángid, sem vex grynnra i fiørum, er hardara og deckra ásyndum; enn hvørt = tveggia hefir bólur, þó hrossa = þangid minni.

Hrossa = þangid er at því leiti betra, til at bera upp á land, til áburdar á jørd, enn bólu = þangid, at þat er saftugra, og leysiz því fyrr eda fúnar i sundr.

Þat þáng er og skárra enn bólu = þang, at giøra graut af, fyrir svín, kálfa, og i hall=





hall-æri fyri menn, þá bólu-þangid er grofara og hardgerdara.

## LXX.

## Hrúta-bería lyng.

*Rubus saxatilis, flagellis herbaceis.*

*Icosandria, Polygynia.*

Nor. Teje-Bær, Tæge Bær, Steen-Bær.

Dan. Frue-Bær. Þydsk. Backs-Bær.

Hrúta-berianna mióu leggir, kallaz skolla-reip; og af þeim rída norskir bændur karfir, þegar þeir hafa ádr hreinsad og reitt af þeim alla ánga.

Þessi ber hafa góda lykt, styrkia hiartad og magann, gefa nyann krapt veikum sóttlera manni, og eru líka góð i móti skirbiúgi.

Þaug eru einkar góð, i móti heitri köldu, stilla líf-syki, lækna sár, munnfylu og útslátt varanna, eins kláda útbrot öll, þegar þaug eru framin vid-lögd.



Seu þaug løgd yfir hár=svørd, segia menn þaug giøri hárid svart, sem þar vex út af sídan.

Vín sem á þeim stendr, er hiarta=styrkiandi, líka brenni=vín; og fær hvørt=tveggia þar af þægann smeck.

Þessi ber eru góð holds=veikum møn=num, og þeim sem hafa skir=biúg; af þeim gioriz sykrad juck eda musl, sem halldid er mikid sælgæti.

**Hvítt þussa=skegg, siá mar=mennils=þari.**

## LXXI.

## Hunda=fióla.

*Viola canina. Viola martis inodora. Syngenesia Monogamia.*

Dan Vilde Marts Fioler.

Þydsk. Hunds=Violen.

Sviar kalla: Skogs=Fioler, Lænsmans Støflar.

Þessi fióla hefir alla sømu dygd og verkan, sem hin almennasta fióla, med

gulu

gulu blómstri; enn þessi hefir blá blómstur, og vex helst i forsælú.

Hennar blómstr og fræ innntekid, greida fæding qvenna, og leysa eptir-burd, líka stadid blód med konum.

Vatn af henni dropid, skerpir syn, ef þat kemr i augu manns; kælir og linar alla bólgu.

Logr hennar inntekinn, styrkir hofud; kælir ofhita lifrar og lúngna; temprar blód-skerpu.

LXXII.

## Hvonn, Hvann-gras.

*Angelica. Archangelica. Pentandria Digynia.*

Nor. Qvanne, Qvan-Rot (og sú sem ber blóm) Sløjke.

Dan. Angelica, Engel-Urt.

Þydsk. Engel-Wurtz, Heilige Geist-Wurtz.

Bædi urtin og rótin er æt; já hvanna-nióli flysiadr, er og hefir verid halldinn hollt sælgæti, bæti her á landi, og Norvegi. Strøm.

Vín sem stadid hefir á þessari urt ellegar logr hennar, þynnir blód, opnar þess gáng:

 

orfar svita og tida-føll qvenna, flytir fædingu og eptir-burdi, læknar hiart-slátt.

Rótina má i edik leggia, þurka hana sídan aptr, og bera hana opt at vitum ser, edr hafa bita af henni undir túngu-rótum; þat segia menn gott i móti ohollu ag vondu lopti; eins at drecka edik af henni.

Rótin styrkir maga, eydir vindi, drepr orma i þørmum, góð vid sídu-sting og gømlum hósta, brióst-veiki og tann-verki, þegar hún er opt tugginn.

Hvanna fræ innteкid med hunángi ell-egar med brenni-víni, sem lengi hefir á því stadid, læknar gulu-syki; þat eydir líka vind-gángi i inniflum.

Urtin er køllud besta medal i móti drep-sótt og eitri; dreifir stødnudu vondu blódi; læknar innvortis meinsemdir, og eydir øll-um vondum vessum.

Rótina má geyma i þydri molld á vetrum, inni edr úti, hvørt madr vill, og þó en betr i sykri salltada.

Sá

Sá sem vill planta ser hvann-stód, hann fái ser úngar rætur, á milli vetur-nátta og Jóla-föstu, planti þær þá strax i rak-lendi og i móti nordri, láta vera þumlúngs þyck-va jord yfir efri enda rótarinnar, er þó enn betra at tyrfa yfir þar at auki hinn fyrsta vetr, og taka þat torf aptr burt ei fyrr enn hlýtt er ordid á vori.

Hvannir þær, sem lengi hafa, af fræi vaxid, i hvann-gördum vid bæi, verda ósmecklegri, samt minni at voxtum og kropt-um, enn fialla hvannir, er því best at planta hiá ser villi-hvannir frá fiöllum fiótta hvört edr áttunda ár.

Sama hvönn kann at standa 4 ár, án þess at koma i nióla; enn vili madr hallda sömu rót vid, med því at skera hvönnina nidr vid rót, um Jóns-messu, þá hefir eg reynt, at sama rót lifir átta ár; sídan kemr hún i nióla, og ber fræ, og þá fúnar sú rót haustid eptir.

 

Arid 1740. þegar hall=æri var i Norvegi, þurkudu bændur þessa urt, med blødum og rótum, mølldu og sudu saman vid annad miøl, og átu so. Miolinn fræid og rótin er þat sem hellst ma giøra braud af, saman vid annad miøl.

Þær eru rætur bestar, bædi til áto, og líka lækninga, sem á vori eru snemma grafnar; enn á øndverdum vetri skal þær uppgrafa, sem til pløntunar eru ætladar.

Lappir giøra graut af soxudum hvonnum og þorsk=lifur, og eta so; enn Normenn bruka flat=braud þar til, og kalla þann rett, mølje. Gunnerus.

## LXXIII.

## Húss = laukr.

*Sempervivum Tectorum. Sedum majus vulgare. Decandria Pentagynia.*

Nor. Tak=Løv, Tag=Løg, St.Hans Løg, Huss=Løk.

Løgr úr húss=lauki, mykir allann ofhita likamans, ef dúkr er þar i vættr og vidlagdr.

Slikann

Slíkann dúk má binda við höfuð á óðum mönnum, líka við liða verk og nyrna verk; við síðuna lagðr, lætr hann svía, og sefar allann hita-verk.

Í augu eðr eyru látinn, læknar augna og hlustar verk, sem af hita kemr.

## Hyrðis = skeppa siá hiart = arbí.

LXXIV.

## Jafna = bróðir.

*Lycopodium, caule erecto, dichotomo.*
*Muscus clavatus. Pes ursinus.*
*Cryptogamia.*

Nor. Kraake-Fod, Ræve-Rever.
Dan. Jord-Mus, Ulve-Fod.
Þydsk. Wolfs-Klaven, Gürtel-Kraut, Bær-Lap.

Þessi mosi hefir ofan í knappinum sæði sitt, sem er fullt af vaxtar-ríkis brennesteini, (Sulphure vegetabili) er strax qvíknar við elld, og má giöra með því glæringar.

Það sama sæði eða fræ er gott at lækna blóð-sótt, líf-sýki og hvað sem nyrum þiáir. Hübner. Seydi



Seydi af þeſsari urt er gott vid idraverki og vindi, hóſta og brióſt-veiki, giörir miúkt líf, dreifir og eydir heima-komu og ſlími. Zinche.

Í þeſsu ſama ſeydi er gott at þvo eda lauga pening, ſem lús hefir fengid.

Urtin er gód, og betri enn fleſtir adrir moſar, at ſtappa med i milli þilia, edr annara vida i húſum, því hún helldr ſer ſo vel þurri.

Taka má þeſsa urt, þurka hana og mala, þvæla hana ſo ſundr i raudu-víni, þat læknar blód-gáng.

Utvortis vidlögd, linar hún verki, enn ſád-miöl, hennar i braudi etid, læknar ſtein-ſótt og innantökur. Gunnerus.

LXXV.

## Jafni.

*Lycopodium complanatum. Sabina ſylveſtris, repens. Cryptogamia.*

Nor. Jamne, Jævne.

Jafni giörir gódann gulann lit, og líka faſtann, med því móti; menn vella fyrſt birki-

birki-lauf i potti, þá skal taka jafna, og láta i løginn, sem laufid var i sodid, og sióda þá þar med ullar verkid, sem lita skal; verdr fagr gullt ef ádr var hvitt, enn grænt ef blátt var ádr; þennann lit má líka á skinn brúka.

Jafni hefir næsta því sama krapt, sem um jafna-bródur er sagt.

LXXVI.

## Jacobs-fífill.

*Senecio Jacobæa. Syngenesia Polyandria superflua.*

Nor. Jacobs-Gras, Jacobs-Korsa, vild Jacobs-Stav.

Dan. Ste. Jacobs-Urt.

Tydsk. Ste. Jacobs-Kraut, Króten-Kraut.

Þessi urt er útvortis grædandi, dreifandi, og styrkiandi; se hún marin á milli steina, og sodin so i miólk, er hún góð at leggia

vid



vid qvidinn, vid kølldu, idra-verki, og líka nidrfalls-sótt.

Seydi hennar druckid, styrkir magann, flytir þvag-rás, og eydir ormum, þat er gott vid gulu, lida-verkium og uppsølu, líka blód-uppgaungu; ørfar tídir qvenna.

Miólkur bakstr af henni, slíkr sem nylega var áminst læknar brióst-bólgu qvenna, geitur i høfdi, lida-verk og øll eymstr.

Urt þessi løgd vid qvidinn segia menn giøri upp sølu. Gunnerus.

## LXXVII.

## Jard-bería gras.

*Fragroria vesca. Icosandria Polygynia.*

Dan. og Nor. Jordbær.

Þydsk. Erdbeeren.

Bædi berin og rótin, eru nockud samandragandi, bæta bland-stemmu, flyta fæding qvenna, tempra blóds hita.

Urtin grædir og hreinsar sár, þegar hún er vid þaug løgd; rótin stemmir nasa blód, urtin




urtin i munni tuggin, og berin ſegia menn hreinſi og verie vid eitrudu lopti.

Frá berin, med ſykri, miólk eda víni, þykia ſælgæti, og þó hallda menn þaug hollari, med ſykri og víni enn med miog feitri miólk.

Þeſsi ber hreinſa hradberg af tönnum, og ſkada þær þó ecki, þaug eru góð lækning vid lida-veiki og fóta-veiki, og ſkal þá eta mikid af þeim. Hr. von Linne ſegiz hafa etid af þeim fullt ſkerbord um ſinn, og vid þat batnadi hönum ſín fóta veiki; lika eru þeſsi ber þeim góð, ſem illa eru halldnir af lúngna-ſótt.

## LXXVIII.

## Jard-eple.

*Solanum tuberoſum eſculentum americanum. Siſarum Peruvianum.*

Dan. Jord-Æbler.

Um ræktan og gagnſemi jard-eplanna, hafa Vice-Lögmadr Eggert Olafsſon, Hr.



Hr. Trøjel, og nu at nyu Syslumadr Magnus Ketilsson, greinilega skrifad, og er þat allt á Íslendsku þrykt og útkomid.

Von Aphelen segir, at þaug stóru jard-epli, þoli betr kullda, enn þaug smáu, sem kallaz tartufflur; þessi stóru jard-epli ræktaz miøg i Irlandi. Von Linne helldr þaug hollari; þaug vaxa vel i Norvegi, og er sagt þaug megi standa 4 eda 5 ár i sama stad, og takaz þaug ein upp á haustin, sem stærst eru, til vetrar forda.

Þaug jard-epli, sem vid Irland erú kend, eda Solana Americana, vuxu her i fyrra betr enn nockrar adrar tegundir þeirra fyrr, enn þær sem eg let eptir, álnar diúpt i jørdu, dóu allar ut af vetrar frostum.

Allslags jard-epla blød mega brúkaz sem reyk-tóbak, blødin plockaz á haustin, þegar þaug eru ordin gul; enn se þá nockur af þeim græn, pressa menn þaug saman, so þaug hitni og gulni. Menn saxa blødin, og tóbak saman vid, so þaug fá tóbaks-lykt;

verdr

verdr þetta samsax sæmilega gott og þægilegt i tobaks stad: betra er at deigia þetta tobak med vatni því, sem tobak var i sodid, ellegar sveskiur, eini-ber, eda birkibørkr.

Þessi atferd er komin fyrst upp hiá Svium, og þeir hrósa þessu jard-epla tóbaki miøg, enn þeir brúka nær helming af almennu tóbaki þar saman vid; þeir hrósa ei síst þeim hagnadi, at eckert af þessari ágætu jurt verdi gagnlaust, og at einungis ónytiu.

LXXIX.

## Kallda-veslis mosi.

*Conferva canalicularis.* *Cryptogamia.*

Nor. Kanal-Slinka.

Þessi mosi þurkadr vel má i dynur brúkaz, því hann verdr ló-miúkr, þegar hann er hægt og jafnt barinn.



## LXXX.

## Kál.

*Brassica, crambe, olus. Tetradynamia siliqvosa.*

Dan. Kaal. Þydsk. Kohl.

Kál er farid at verda her innlendsk urt, og flestum alþeckt, þar fyri tel eg þat her med innlendum urtum.

Almennasta gagn káls, er mann-elldi. Lögr úr hráu káli pressadr, helst grænu eda raudu, med ediki eda syru til sín tekinn, er marg-reynt eitt hid besta medal, til at giöra miúkann og hægann vall-gáng þeim mönnum sem ádr þiást af hördu lífi.

Kál-fræ steytt og til sín tekid i brennivíni, rekr orma burt frá manni.

Kál-blad er gott at leggia yfir fleydr og önnur grunn sár, þad þat hreinsar og grædir þaug.

Þat er máltæki: ecki er sopid kálid, þó i ausuna se komid, þat er: annad er at siá gagn

gagn sitt, annad er at ná þvi og fá þat. Þá er enn annad máltæki: Crambe bis coćta mors est; þat er: allir hlutir verda leidir sem ofmiog er trodid uppá menn.

**Kattar-balsám, siá Hrafna-klucka.**

**Kattar-túnga, siá Lamba-túnga.**

## LXXXI.

### Kerlíngar-eyra.

*Fucus, folio latissimo, crassissimo.*
*Cryptogamia.*

Þessi sióar ávoxtr, sem opt rekr á land, er talin med æti-þara tegundum, og tilbuin eins og þær.

**Kísu-gras, siá gleymdu mer ecki.**

## LXXXII.

### Klóúngr.

*Lichen lichenoides, foliis eringii.*
*Cryptogamia.*

Af þessari urt, sem er ein tegund fiallagrasa, giöriz matr, eins og af þeim, med



sama hætti, og þykir þó lakari; þessi klóungr er og smærri enn fialla-grøs.

## LXXXIII.

## Korn-súra.

*Polygonum viviparum. Bistorta, foliis lanceolatis alternis. Octandria Trigynia.*

Nor. Field-Rug, stort Vei-Græs, Perle-Græs, Hare-Rug, Fugle-Mad.

Dan. Slange-Urt.

Þydsk. Kleine Natter-Wurtz.

Þessi urt er miøg barkandi og saman-dragandi, þerrar vel, og læknar sár, helst rótin, se hún áðr malin i dupt, og þat látið koma i sárið.

Þat sama dupt stillir blóð-rás af sárum; og i einhvørium dausum legi druckið, elleg-ar og so seyðið af urtinni, stillir allt blóð-lát innan frá, bæði karla og qvenna.

Þessi urt tuggin, og þó helst rót hennar, styrkir lausar tennur, og veikt tann-hollð,

hellst

hellst tuggin saman vid skarfa=kál, og adrar þær urtir, sem veria skir=biúgi; hún ver því líka, at konu leysiz høfn.

Af Korni þessarar urtar má giora mat, hellst graut, og er þá betra at i grautinn komi nockud þat sem bætir hanns barkandi krapt, so sem kunna at vera miólk, syra, edr einhver feiti, sem þar á vid, og fyrir hendi er. Urtin er ret gott kálfa og lamba fódr, enn lakari fyrir hesta.

Þegar i seydi þessarar urtar kemr victril eda kopar=vatn, verdr þar af nærri so gódr svartr litr, sem af gall=eplum; skal hana þá at vori, sem allra fyrst verdr, uppgrafa.

Urtin læknar líf=syki, og greidir bland=rás.

Seydi af henni verdr raudt eda raud=leitt, og er þat gott til at skola munninn med, vid aud=fylu og bolgnu Tan=holldi, eda munn=svida.

 

Urtin brúkaz i Norvegi, og helst i Siberia, þurkud og malin i miøl stad, bædi til grauta og brauda. Gunnerus.

## Kotúns-vídir siá Grá-vídir.

LXXXIV.

## Króka-mari.

*Sertularia abietina. Cryptogamia lithophyta.*

Þessi steinkenda sióar urt, má brúkaz eins og mar-mennills þari; menn hafa líka steytt urtina i fínt dupt, og tekid þat sama inn i víni i móti stein-sótt.

LXXXV.

## Kross-madra.

*Galium Trifidium, Foliis quaternis, flore albo. Tetrandria monogynia.*

Nor. Fiell Mour.

Þessi madra hefir alla sømu verkan, og eins má hana brúka, sem Galium boreale.

## Kross-urt siá Velants-urt.

LXXXVI.





## LXXXVI.

## Kræða.

*Lichen, Coralloides, tenuissimus nigricans.*
*Cryptogamia.*

Þessi mosi er smæstr og lákastr af øllum fialla-grøsum; selst hálfu minna, enn er þó matbúin og etinn sem ønnur grøs; helst norðr i Eyafirði. Siá Islands Reisu-bóg, pag. 677.

## LXXXVII.

## Kræki- eda Kráku-beria lyng.

*Empetrum nigrum procumbens.*
*Polygamia Triæcia.*

Nor. Kræke-Krycke, Kreike-Bær, Kræke-Lyng.
Dan. Krage-Bær. Þydsk. Kråen-Beeren.

Logr þessara beria er svalandi, og nockuð barkandi; se hann seyddr, þá læknar hann blóð-gáng.



Þennann løg má brúka i vín stad, at giøra blek af, eptir útlendskum máta.

A fyrstu árum þrettándu alldar, let Páll biskup, búa til af þessum legi dryck þann, sem menn kolludu beria vín.

Hr. Syslumadrinn Magnus Ketilsson hefir nú i hitt hid fyrra kent monnum, at brúka blod þessa lyngs, til hænsa=fódurs, i sínum ágæta bæklingi, um sád=tegunda tilraunir þryckttum i Hrapps=ey 1779.

Lyngid siálft brúkaz til ellds=neytis, helst hiá sió=monnum her vestra, i ver=stodum þeirra: til tróds á hús, og undir sængur i rúm (hvar til þat er þó helst óhentugt): i hardind=um er þat geld=neytum og geld=saudum gefid.

Asamt med þángi er þat gott at brúka, bædi undir verme=bed i gordum, og líka saman vid hrossa=tad i bedid siálft, so þat verdi alldrei of þett.

Blár litr gioriz af þessum berium, enn verdr varla fastr; norskir bændur lita deck=raudann lit, med legi þessara beria, þegar

þeir

þeir hafa ádr gangn vætt þat sem litaz á, i aluni, og þurkad aptr, ádr enn þeir seyda þat i beria leginum.

Þessi ber brúkaz almennilega, til at giøra af þeim beria-skyr, sem geymiz allann vetr, og kalla menn þat hollann mat, enn ecki berin siálf fyri sig, ef at þaug eru miøg etin eingøngu, því þá eru þaug hvørki góđ fyri brióst ne hofud.

Finnar geyma þessi ber i syru allann vetr, og brúka þaug so bædi fyri mat og dryck. Gunnerus.

Finnar láta einnin hrein-dyra miólk i hrein-dyra maga, og láta kræki-ber koma þar ofan i, geyma so i frosti, framm á vetr, høggva þá med øxum i stycki, og brydia fredid. Idem.

Þá er enn nyr vidhafnar-meiri máti, at tilbúa kræki-ber, og líka fleiri ber til sælgætis. Menn taka berin hrein, meria og sprengia þaug i nockru iláti, vinda þá eda kreista løginn, i gegnum lín-dúk; þenn-

 ann



ann løg tekr madr, og leggr til so mørg sykur pund, sem pottar eru lagarinns: þetta lætr madr koma i ketil, og sudu þar uppa, so mikla at þyckni til qvodu, þar eptir geymiz þessi qvoda eftir þorfum.

Vínlegann dryk giøra Normenn af þessum berium med þvi móti: Menn fylla áttúng af beria legi, opna sponsid, taka þá brád heita braud-sneíd, brióta hana, og láta koma ofan um spons-holid; þá kemr ger i løginn, sem øl, og verdr dreckandi.

## LXXXVIII.

## Kúa-lubbi.

*Boletus bovinus, pileo hemisphærico brunneo.*

Nor. Ku-Sop, Bu-Sop. Dan. Pølse. Þydsk. Sommer-Bülz, Brat-Bülz, Stein-Bülz.

Þetta er einn æti-sveppr, og er talinn einn hinn besti á medal þeirra; hann hefir

fengid

fengid nafn af því, at kyr sækia miøg at
hønum, og gelldaz þó af miklu áti hanns.
Gunnerus.

LXXXIX.

## Kumen.

*Carum, Carvi, Cuminum. Pentandria digynia.*

Nor. Karve, Karve-Kaal.

Dan. Kumen.

Þydsk. Weisen oder Feldt-Kümmel.

Kumen er vída ordid innlendsk her med
oss, og hvar þat einu sinni timgaz, vidhelldr
þat ser siálft, því alldrei er so grand-varlega
safnad fræi þess, at ei falli nockud nidr,
hvar af þat kemr upp ár eptir ár. Samt
ber þat lángtum meira fræ, ef at þess rætur
eru á hvoriu hausti plantadar i sundr; so þat
verdi hvorki of þiett, ne annad gras fylli
landid um þat: þegar nybúid er at safna
fræinu, er timi at planta allar þær rætur,
sem



sem ei hafa borid fræ: sidan má ef vill sá kúmen-fræi ofan yfir, þat kemr upp næsta ár, enn þó ecki i blómstr; sú rót sem fræ bar, deyr á sama hausti.

Fræ þessarar urtar styrkir maga, dreifir og leysir upp hvad slím þar er saman laupid, læknar innantokur, þynnir og hreinsar blódid.

Bløb-þessarar urtar eru góð til salats, bædi þaug og rótin eru góð til súpu, hvort helldr hún er af kioti eda fiski tilbúinn; enn þegar urtin fellir blómstr, er hún ecki lengr æt.

Kumen gefr gódann smeck margslags mat-vælum, so sem súpu, káli, ostum, allslags pilsum, og einkum braudi.

Brenni-vín, sem á kumeni stendr eina nótt eda lengr, er reynd góð lækning vid gulu-sótt, taki madr litinn sopa at morgni.

Litid kumen at morgni etid, er gott vid sidu-stíngi, vind-gángi, og líka and-fylu. Menn segia þat auki miólk i konu brióstum, item

item lækni kolldu-syki, steytt og so druckid i heitu øli.

Vid heyrnar deyfu skal baka súr-braud, blandad med miklu kumeni, og leggia þat heitt vid eyrad, ellegar láta gufuna leggia i gegnum trekt uppi eyrad.

Normenn giøra saup-kál af úngu kumeni, á vorin med úngum netlu bløđum saman vid, sem þeir kalla hollann mat og þægilegann. Kúmens rætur má saxa, og giøra af miólkur graut gódann og hollann.

Zinche segir ræturnar bæti øl, ef þær eru med malte til øl-gerdar brúkadar: brennivín af kumeni bruggad, bæti vel uppþembing, og hreinsi magann.

## XC.

## Kuriel.

*Corallium. Cryptogamia lithophyta.*

Þat er søgn manna, at kuriel eda marmennils smídi, á halsi borid, so at þad liggi vid bera bringu, stilli blód-lát qvenna.

Þegar



Þegar þetta kuriel er malið i dupt, og inntekið, bætir þat hiart⸗verk, lika alla þá óreglu magans, sem kemr af súr.

Með sama hætti inntekið þetta dupt, drepr og útrekr orma frá manni, stillir lif⸗syki, greiðir bland⸗rás.

## XCI.

## Lamba⸗blómi.

*Cucubalus* (minor) *acaulis*, *Silene acaulis.*
*Decandria digynia.*

Brenni⸗vín sett á lamba⸗blóma, fær bæði góða lykt og smeck, og hallda menn þat styrki hiartað, bæti brióst⸗veiki og hósta.

Rót þessarar urtar kallaz hollta⸗rót, hún er soðin vel og lengi, fyrst i vatni síðan i mióik; verðr hún þá ætr matr, enn annars ecki, at hanns meiningu, sem hefir þetta sultarlega máltæki: flest er þat matr sem i smagann kemst, nema hollta⸗rótin óseyðð.

XCII.




CXII.

## Laukr, Villi-laukr.

*Allium oleraceum, Scorodoprasum.*
*Hexandria monogynia.*

Nor. Eng-Løk, vild Løk, Roalds-Løk.
Sv. Ang-Løk, Hund-Løk.
Hyðsk. Feld-Knoblauch.

Þessi laukr, sem fyrst er innlendr ordinn i Bæ i Borgarfirdi, enn sidan kominn hingat vestr, og ordinn her nockud stærri i ræktadri jörd enn ádr, hefir líka náttúru ødrum laukum, enn er þó nockud daufari, og krapta minni; hann lifir úti allan vetr i klaka, enn þat giora líka framandi laukar, med gódum atbúnadi.

Laukr þessi læknar idra-verk og garna gaul, drepr orma i ídrum manns, ef honum er gnyd um nafla stad; sió-mønnum er hann hollr; øllum dofnum, slen-fullum mønnum, er hann lækning og hollr i mati; mys fordaz lykt hanns.



Vid bólgu, þrota, og líka vörtur, er marinn laukr gódr, og se látid salt þar med, enn þarf at endurnýa, ef at vörtum skal i burtu ná.

Miólk, sem þessi laukr var i sodinn, þykir gód vid uppdráttar sótt; sast hanns er látin driúpa i eyru i móti deysu, og hliódi fyrir eyrum. Gunnerus.

## XCIII.

## Leysingar-sly.

*Byssus velutina. Cryptogamia.*

Nor. Tuft-Dække.

Þetta græna eda bleika sly, sem siest á iördinni, eptir nýleystann snió á vori, segia menn gott at leggia yfir heima-komu.

J þessu slýi er ágæt jardar friógan, þegar þat rignir ofan i rótina.

Sá fagri gul-græni litr, sem þetta sly hefir, á medan þat er vott og friótt, er efni

þeirra

þeirra munn=mæla, at menn kalla allt þat sem er fagur grænt, ýfia=grænt. Siá Yfiar.

## Líða=gras siá Ellting.

## XCIV.

## Lyfia=gras.

*Pingvicula vulgaris. Diandria monogynia.*

Nor. Tætte=Græss.

Dan. Vibe=Fit, Haar=Vext.

Þessi urt er grædandi, góð at legia við sárindi barna, þeirra útbrot og óværu; þegar jurtin er i vatni soðin, og höfuð barna þar með þvegið, drepr þat lýs, hreinsar svörðinn, og lætr hár=vaxa.

Urtin hleypir miólk, og gefr henni gulann lit; lögr sem úr þessari urt pressaz, grædir vel bólgu og sprúngur i kúa júfri.



Seydi af urtinni drepr allslags lys, og ver líka søt fyri þeim, se þaug vætt i því og sídan þurkud.

Blød urtarinnar i kiøt-súpu etin, giøra laust líf; se hún marin, sodin og i posa vidløgd er, og gott at leggia hana vid lenda-verk.

I Norvegi, Svíaríki og Finn-mørk, leggia menn lysia-gras blød i miólkur syu: þegar miólkin er þar i gegnum siud, setia menn hana á afvikinn stad, tvo eda þriá daga, og lengr ef at kallt er, þá verdr miólkin þyck, enn skilr sig þó ecki i misu, og smackar þá vel; þetta kallaz þietta, (og lac hyperboreum); i þá miólk, sem dreckaz skal á málum, er látid nockud lítid af þessari þiettu, so at hún verdi betri og þyckri; þat er sumar-matr norskra og sænskra bænda, og þykir þeim dryngindi mikil i þessari mat-skapan; þat feitasta ofan af þiettunni eta þeir vid braudi.

XCV.

## XCV.

## Lifrar-urt, med gulu blómstri.

*Anemone hepatica. Poliandria Polygynia.*

Nor. Blaa-Simmer.

Dan. Edel Lever-Urt.

Pydsk. Leber-Kraut, Gülden-Klee.

Þegar blod þessarar urtar eru sodin i þunnu øli, og þat sidan druckid, segia menn at læfni þúng-lyndi, og se þetta seydi druckid qvolld og morgna, og þar at auki taki madr inn terpentin-oliu, fyrst 1 dropa, annann dag 2, og so jafnan einum fleiri, dag eptir dag, allt til þess siounda dags, og sidan dragi jafnt af því adra sio daga, til þess þá er ecki tekinn nema einn dropi, þá segiz Riddarinn von Linne læknad hafa einn mann, sem lengi hafdi þiádst af milltis-syki.

 

Þessi urt finst ymist med hvítu eda gulu blómstri, enn her vestra hefi eg alldrei sied hana, nema med hvítu.

XCVI.

## Lifrar urt med hvitu blómstri.

*Parnassia palustris, Hepatica alba.*
*Polyandria Polygynia.*

Nor. Høst Simmer, Mariæ Senge-baand.
Dan. Hvid Lever-Urt, Lever-Blomster.
Þydsk: Leber-Blumlein, Studenten-Røßlein.

Þessi urt grædir útvortis, marin og vidløgd med feiti, þúng-lyndi læknar hún, nærri so vel sem hin gula lifrar-urt; øl seydi af henni, læknar lifrar veiki, líka hiart-verk og qvef.

Løgr hennar er augum skadlegr; fávís madr her vestra bar i augu ser þennann løg, vid sión-depru, eptir rádum einhvors síns líka, og var þar af nærri blindr nockra

stund

ſtund þar eptir, enn hønum batnadi þegar hann hætti þar vid aptr, og brúkadi eckert vid augum.

## Lín = arbi ſiá Arbi.

### XCVII.

### Lións = lappi, Lións = lumma.

*Alchemilla montana vel alpina, Leontopus, Pentaphyllum argenteum. Tetandria Monogynia.*

Nor. Field = Kaape.

Þydſk. Berg = Sinau, Steen = Sinau, Löwen = Fuß.

Þeſsi urt hefir ſømu verkan, ſem Máriu = ſtackr; þegar hún er druckin, ſem thee, dregr hún ſaman, og læknar líf = ſyki.

Hún hefir fimm lauf ſilfur = lit nedan, þar ſem hún hefir leir = jørd; annars er hún jafn = lit ofan og nedan; þetta ſkrifa norſkir menn: enn her veſtra hefi og gætt at jard = veg þar ſem hún vex, og hefir hún her ſilfr = lit nedan, þar ſem eg get ei fundid annad enn eitt ſaman málar griót.

 Urtin



Urtin þurkuð og smá steytt i dupt, læknar líf sýki barna, se þeim þat dupt inngefið.

Løgr hennar eda vatn af henni brent, er gott at þvo með opin sár og fleydur; síðan væta dúk i sama legi og leggia hann utanyfir, hreinsar bædi og grædir.

Sárindi i qverkum með bólgu læknar þessi løgr, þegar hann er skoladr þar um, edr urtin etin. Secret. Olavius segir þat og.

## Lións = tenn siá Fífill.

XCVIII.

## Litunar = mosi.

*Lichen, Saxatilis imbricatus.*
*Cryptogamia.*

Nor. Steen = Mose, Farve Mose, Kork = Mose, Graa = Kork.

Þessi mosi brúkaz i Norvegi, líka sem her á landi, at lita raud=brúnt, Norskir brúka þar med birke = bork, ellegar og so vidar mosa, verdr þat fastr litr.

XCIX.

## XCIX.

## Annar Litunar=mosi.

*Lichen leprosus, flavescens mappam referens.*

Þessi mosi er gulr, kallaz Lichen Geographicus; hann finst á klettum, með svörtum línum og strikum, og því hefir von Linne gefið hönum áminst nafn; i Norvegi brúkaz hann til at lita gult.

## C.

## Þriðie Litunar=mosi.

*Lichen crustaceus, ex albido virescens, scutellis flavescentibus.*

Nor. Hvid=Blik, Hvid=Kork.

Þetta er hvítr mosi, og litar þó rauðt; menn skafa hann af steinum með kníf, þegar rignt hefir, síðan skola menn hann i vatni, þar eptir leggia menn hann i keitu, so hann gángi, og so stendr hann i 14 daga: síðan



taka menn hann og siódа med toyinu, sem lita skal; liturinn verdr sæmilega fagr, enn lysiz vid sol-skin. Von Aphelen.

## CI.

## Loka-siódr.

*Rhinanthus, Crista galli, Alectorolophus.*
*Didynamia Angiospermia.*

Nor. Strangle-Græs, Rangle-Græs, Slotte-Kall, Soud-Svelte.
Dan. Hane-Kam, Rassel.
Þydsk. Taschen-Kraut, Hanen-Kam, Klaffer.

Seydi af þessari urt má drecka vid hósta; líka segia menn gott, at þvo i því dapur augu.

Þá kalla menn tíma at byria slátt, þegar fræin taka til at strangla i loka-siódnum.

Þydskir eta þessa urt únga á vori, saman vid kál, edr annad urta musl; fræ hennar brúka

brúka þeir og so til matar; þat sama hallda þeir einnin gott vid blód-sótt og gulu.

## CII.

## Loka-sióds brodir.

*Bartsia alpina. Didynamia. Angiospermia.*

Þessi urt er grædandi og barkandi, bædi útvortis og innvortis; hefir þar at auki vidlíka verkan og loka-siódurinn.

## CIII.

## Lúnga-mosi.

*Lichen pulmonarius foliaceus. Cryptogamia.*

Nor. Lunge-Næver.

Dan. Lunge-Urt, grøn Lunge-Urt.

Þydsk. Baum-Lungen-Kraut.

Þessi græni mosi vex utan á birki-berki, ljós og nockud lodinn nedan undir. Mísa, sem hann er sodinn í, er halldin gód, vid

 kaunum



kaunum og kláda, líka verkar hann sama, þegar hann er þurkadr og malinn i dupt; hann er opt reyndr at vera gódr vid gulusótt; og þegar qvik-fenadr fær mikinn hósta, hella sænskir bændur seydi af honum ofan i penninginn.

## CIV.

## Lusa-jurt.

*Pedicularis paluſtris, Caule ramoſo. Flammea. Didynamia. Angioſpermia.*

Nor. Myrklæg, Frier-Græs, Luſe Græs.

Dan. Enge-Trold, ſtor Luſe-Urt, Trold-Urt.

Þydſk. Rödel, Laus-Kraut.

Þeſsi Urt hallda menn giori kúm líf-ſyki eda blód-ſótt, enn ám vats-ſótt, rádleggr Gunnerus Biſkup þar i móti, at gefa peningnum inn barkandi urtir eda rætur, ſo ſem Tormentillu rót og þeſshattar.

**Lúſa-lyng ſiá Kraki-beria lyng.**

CV.

## CV.

## Lykills = urt.

*Bellis, Flore rubro cæruleo perennis. Syngenesia Polygamia.*

Nor. Tusind Fryd.

Hydsk Tausendschön, Zeitlosen.

Sv. Pytter, Jule-Lius.

Þessi urt er grædandi og barkandi, god vid kolldu-syki, og líka hvít tída-foll, er þá druckid seydi hennar.

Nafnid hefir þessi jurt fengid, i fyrri tíd, af því at þiófar meintu hana duga i lykills-stad, at opna hyrdslur manna, enn þeir mega nú olludngis orvænta ser þeirra nytia, af þessari sem odrum urtum, og láta ser nægia þacklætid sem þeir fá, fyri þat þeir hafa gefid urtinni kenningar nafn.

Þessi urt er sögd góð, at hreinsa og lækna lifur, lúngu, millte, brióst og innan kostad; med henni lækna menn hard-lífi barna,

þvi



því þau laxera af henni; útvortis vidløgd, kælir hún, bleytir mykir og grædir.

## Lækía-sóley siá Hóf-blaka.

## CVI.

## Madra, med gulu blómstri.

*Galium vel Gallium verum*], *flore luteo.*
*Tetandria Monogynia.*

Nor. Mour, guul Mour, Jomfru Marie Seng-Foor.

Dan. Klammer-Urt.

Þydsk. Meyer-Kraut, Unser Frauen Bett-Stroh.

Þessi jurt stillir blód-rás, se hún þurkud og malinn, enn duptid látid koma i undina; hún er og so góд at leggia vid bruna sár.

Bædi løgr og seydi af þessari urt, er gott at bera á lúna limi og veikar sinar; líka má siódа urtina i smiori, og smyria med þvi sama.

Sie modru blómstr sodid i miólk þeirri, sem ostr skal af gioraz, þá verdr hann þar af meyrr og fagr gulr, menn segia og so at miólkin hlaupi þá betr, og osturinn verdi stærri. Gunnerus.

Hófleg lykt af modru er þægileg; enn óþægileg se ofmikid er af henni, hún gefr mesta lykt i þyck=vidri eda regni.

Modru=blómstr litar gult, enn modru rætur raudt; Kalm kennir atferdina; hann segir so: modru rætur takaz á hausti eda vori, þær hreinsaz, þurkaz og malaz til miols, þar vid bætiz malad malt edr ol, þá leggia menn nockud af þessu mioli á pott=botninn, þá lag af ullinni sem litaz á, sídan aptr miolid og annad ullar lag, og þetta so lengi, sem efni eru til, og potturinn helldr; þetta allt er sodid saman einn tíma, eda mest hálft dags mark, þar eptir er ullar verkid tekid upp, þvegid og þurkad; þat sem ádr var hvitt, verdr liós=raudt, hitt sem gult var, verdr fagur raudt; jafn=vægi skal vera róta miolid og ullin. Hvar



Hvar madran er mikil i beitar landi, qvarta konur at miólk vili strax hlaupa, og er þat nátturleg verkann modrunnar.

## CVII.

### Madra, med hvítu blómstri.

*Galium boreale. Tetrandria Monogynia.*

Nor. Hvid Mour, Taag Milde, Fægri.

Dan. Glat Enge-Røde.

Þydsk. Wall-Stroh.

Þessi madra brúkaz til litunar, eins og hin; þat sem ádr var litad gult med jafna, eda birki-laufi, lita Sviar og Normenn raudt, úr rótum þessarar modru, med somu atferd og ádr er sagt um gulu modru rætturnar, fá þeir þá fastann og gódann lit.

Til at fægia og skygna med, má þessa modru brúka, nær hún er vel þurr, allt eins og ellting.

Her vex hvít madra i magri jørd; hin vill adra feitari, og er su nær því buinn ad

fylla

fylla alla urta=garðs veggi mínna innan til, enn sú hvíta helldr ser við hinn þurra og magra skelia sand, litið jarð=blandinn.

## CVIII.

## Mar=hálmr.

*Zostera marina, Alga vitriariorum, Ruppia alga graminea. Gymnandria, Polyandria.*

Nor. Marhalm, Aale=Græe,

Dan. Strand=Græs, gemeen Tang=Bendel.

Þydsk. Meer=Graß.

Þessi urt finst i fiarða botnum, hvar leir er, og líka ber þat við, hún finst i stoðu=votnum.

Mar=hálmr et gott nauta fóðr, og líka sækia þaug miög at honum; þegar hann er þurr má hann brúka sem slý, at stappa rifur með.



Bædi hestar og saud=fe eta giarnann mar=hálm. Gunnerus biskup segiz hafa þeckt bónda nockurn i Norvegi, sem i fódur=ecklu, þegar fe hanns brádhúngradi, og var ordid so dregid, at þat lá á hniánum, hafi reynt allt þara kyn at gefa því, þáng=at til hann gaf því seinast mar=hálm; sídan hellt hann því ollu, so þat dróst framm.

## CIX.

## Mari=Kiarni.

*Fucus penniformis, Costa intermedia cauleqve eduli. Cryptogamia.*

Þessi sióar ávoxtr, er halldinn bestr, af ollum æti=þara tegundum, því hann er bædi þeirra meyrastr, og smek bestr: hann er matbúinn, sem æti=þáng, er sídar mun sagt verda; nedri partr mari=kiarnans er kalladr bialla, og er hún etin tilbúin sem hann: og einstaka menn eta þennann siá=voxt

voxt hráan strax i fiorunni, og kalla þeir þat at nógu gott.

## CX.

## Mariu=grøs.

*Lichen nivalis, sinubus dædaleis Cryptogamia.*

Þessi grøs eru smærri enn fialla=grøs, og líka smærri enn hrein=dyra mosi, enn eru at øllu hønum lík, þaug þurfa mikla suðu, og nær þaug fá hana, eru þaug vel æt, og þá eru þaug halldin holl brióst=veik=um mønnum; þaug eru fagr=liós=gul, og falleguſt allra þess háttar grasa=kynia; mariu=grøs og trølla grøs, eru hellst auðþeckt frá hreina mosa af því, at þaug vaxa i bløku formi opin, enn hann vex upp holr innann, og sívalr i greinum, enn á lit þessara teg=unda er ei mikill munr.



## CXI.

# Maríu = stackr.

*Alchemilla vulgaris. Tetrandria Monogynia.*

Nor. Kaape-Græs, Mari-Kaape.

Dan. Løve-Fod, Sinov.

Þydsk. Marien-Mantel, Løwen-Fuß, Unser lieben Frauen Nacht-Mantel.

Þessi jurt er góð at græda og hreinsa sár, bædi marinn vidlogd, og lika seydi af henni til sín tekid; þat stillir blód-lát allt, bædi ofan og nedan frá, styrkir fríósemi.

Bríóst qvenna þar i þvegin, verda fost og þrístin, se lagdr votur klútr i þessu seydi þar yfir.

Urtin er barkandi, og þó alment halldin besta míólkur urt fyri kyr, eins og líóns lappinn.

Se þessi urt sodin i míólk, og sú míólk druckin, segia menn þat hollt qvidslitnum monnum, til at græda þá. Gunnerus.

Bædi

Bædi yfir opin kaun og meinsemdir, líka bólgu, og þar sem verkurinn er undir, er gott at leggia marinn mariu-stack, þat grædir, mykir og stillir verkinn.

Menn hafa sagt mer, at þessa urt megi i barkar stad brúka, til at rækta skinn; undir þófa, á meiddum hesti hefi eg vitad hana til gagns brúkada.

## CXII.

## Maríu-vøndr.

*Gentiana autumnalis, nivalis, campestris. Corolla hypocrateriformа. Pentandria Digynia.*

Nor. Sting-Græs, Hol-Græs.

Dan. Liden Entian.

Þessi urt hefir lángt og mikid blátt blómstr, þat er og til, at hún finniz med hvítu blómstri.

Henni er eignadr kraptr i móti rotnan og eitri. Normenn siódа urtina i oli, og



drecka seydid vid taki og sidu=sting: Svíar giøra hid sama, nema þeir brúka vín fyrir øl.

Urtin vex her i sendnu þurr=lendi, med myrk=bláu blómstri.

## Marmennills=smídi siá Kuriel.

### CXIII.

## Marmennills=þari. (Hvítt þursa skegg.)

*Corallina officinarum. Cryptogamia Lithophyta.*

Þydsk. Corallen=Moos.

Þessi þari má brúkaz, eins og kuriel; hann er og so malinn i smátt dupt, til at húda málma med, enn þó hellst silfur.

### CXIV.

## Mar=þrádr.

*Linum Maris, Fucus filiformis. Cryptogamia.*

Nor. Slinka Søl.

Af því at þetta ormióa þáng súnar so fliótt i sundr i moldinni, er þat flestu ødru hent=

hentugra at jafna því í sáð-reiti, sem fyrrir eiga at standa til annars árs; þó er mar-práðurinn enn betri, til at vefia um urtir og tre á vetrum, at veria þaug frosti.

## Meistara-urt, siá Sæ-hvønn.

CXV.

## Mela-sól.

*Papaver alpinum. Polyandria Monogynia.*

Nor. Fiell-Valmue.

Þessi urt segia menn hafi svæfandt krapt; blómstur hennar, sem legið hafa nokra stund i sterku víni, eru halldin goð við brióst-veiki, hreinsa þyckt blóð og grugugt, stilla tak og ofmikil blóð-lát.

Við høfuð-verk leggia menn ny blómstur þessarar urtar á ennið og gagn-augun.



CXVI.

## Melr.

*Grundo arenaria, Elymus arenarius. Gramen spicatum secalinum Triandria. Digynia.*

Nor. Strand-Rug, Søe-Rug, Sand-Havre.

Dan. Blaalig Hvede-Græs.

Mel-kornid er til matar brúkad, hellst austr á landi; enn her fær þat ei árlega full ordinn og hardann kiarna, og alldrei fyrr enn i October mánadi, optast nálægt vetrnóttum.

Hann er besta gras at festa sok sandinn, vegna hanns laungu róta og þeirra mørgu smá hnúda, sem þar eru á, (Testiculos granulosos) þeir hafa allir friósemi i ser, og þar af vex hann árlega, þó hann se sleginn.

Melr er her af øllum halldinn besta nauta fódr, og þá allra hellst, þegar hann

er

er slegin i grænu axi, og þá er hann líka gott miólkur hey.

Vili madr sá mel-fræi, i fok-sand, þá safna menn því um vetur nætur, þegar þat er komid undir at falla siálft; enn þat hardnar máske fyrr enn her, þar sem er betri afstada og sól-far. Strax sem þaug fræ eru tekin, sá menn þeim þar sem hentar; enn med einhvoriu móti verdr so um at búa, at vindurinn beri ecki allt i burtu med ser aftr á vetri.

Her á bæ hefir eg þanninn sád mel-fræi, i ondverdum November, kom þat upp næsta ár lítid og lágt; enn á þridia ári kom þat fyrst i ax, því þá hafdi þat fengid i iordinni sína frió-hnúda, og sídan er þat betr komid i betra stad, því nú hefir þat ríflega tólftúng gódrar iardar saman vid sandinn, og vex stærra og kiarna meira, enn i berum sandinum.

Dynur á hesta, og hvogur fyri matseliur, at hreinsa ílát, gioraz hentuglega af

 mel-



mel-rótum. Taugir má líka af þeim giora.

Her vestra fylla menn gáttir á uti-húsum med mel-tágir, sem menn vilia veria snió, enn ecki súg-vindi, at komaz inn i geymslu hús; dugir sami melr mørg ár til þess, þegar hann er tekinn úr gáttum hvørt vor, og geimdr so þurr til næsta hausts.

## CXVII.

## Miad-urt.

*Spirea ulmaria, Regina prati, Filipendula. Icosandria Pentagynia.*

Nor. Mijøurt, Kors-Græs, St. Hans Græs.

Dan. Mød-Urt, Gede-Skæg.

Þydsk. Geiß-Barth.

Þessi urt opnar svita-holur, hún er nockud samandragandi, gód vid land-farsyki, búk-hlaupi, mergruna sótt, blód-láti upp eda nidr, af manni eda konu.

Hún

Hún er góð lækning við bein-broti viðlögð, og eins við önnur sár, þá er urtin öll með blöðum og rótinni viðlögð.

Miað-urtar blöð gefa bæði öli og víni hollann og þægann smeck; hún brúkaz einnin til at barka skinn, og lita svarta ull.

At breida hana á gólf i húsum, giörir góda lykt og hollt loft. Seyði af urtinni er gott við kölldu, þat hreinsar líka vond sár; þessi urt vex hellst i kölldu myr-lendi.

## Millefolium siá Vall-humall.

## CXVIII.

## Mosi. Er Margslags.

*Muscus. Cryptogamia.*

Allar hinar stærri mosa tegundir, eru góðar, nær þær eru hreinar, og vel þurrar, at geyma i, þat sem eingin mocka eða sllagi má at koma.

Stori engia mosinn má brúkaz fyri tróð, og líka má stappa með hönum á milli



þils og veggia í húsum, so at fyllist allar gáttir, þat giörir hita, og ver slaga.

Vidar plöntur geymaz í honum á reisum, og líka þat sem upp úr jörd stendr, af þeim á vetrum.

Seydi af flestum mosa tegundum, druckid, hreinsar idurin, rekr orma frá þeim, og orsar svita.

Mosi steyttr og marinn vid sár lagdr, stemmir blód-rás, þetta hafa Biarn-dyr kent monnum, þaug velta ser í mosa nær þaug fá sár.

Öllum mosa eydir þat úr engium, (segir J. Bauhin) at bera á þaug þáng-osku, sem ádr var útseydd; mun þat ei fiærri sanni, því sú aska eydir allri lód jardar, og mun þessi madr ætla til, at engid sé eptir á útsád med gras-fræi, eftir áburd og adra rækt.

## CXIX.

## Munda = grøs.

*Lichen coacervatus, edulis.*

Þaug eru minni enn fialla=grøs, eru miøg krullud, vaxa út af fyri sig, matbúaz sem ønnur grøs, og þykia þá betri.

## CXX.

## Mura. Muru = gras.

*Argentina, Anserina, Potentilla reptans. Pentaphyllum. Icosandria Polygynia.*

Nor. Kryp=Mure.

Dan. Stor Fem Fingers=Urt, Katte=Tarme, Sølv=Urt.

Þydsk. Kriechend Fünf Finger=Kraut.

Þessi urt er barkandi, kælandi og grædandi, hún stillir blód=lát qvenna, hvert þær bera hana i høndum ser, edr undir il i sockum, og þetta sídasta vard her nylega einni konu at fullu gagni. Urtin er og so

logd



løgð við mein, mariun og ſíðan velgð i potti, og er hún þá brúkuð ſem bakſtr.

Muru-rætur eru góðr matr ſeyddar i vatni og ſíðan i miólk; þær ſømu rætur eru etnar bæði i Norvegi og Englandi; þeſsar þióðir ſióða þær i vatni, þurka aptr, mala ſíðan, og brúka með miøli til brauðs, ſem þeim þykir vel ætt.

At murur hafi forðum verið til mann-elldis brúkaðar, kennir máltækið gamla, ſem opt er ſagt um þá menn er óvænlega reiſtu bú, enn urðu þó at þrifum: hann átti þar børn og buru, gróf ſer rætur og murur.

Mura með ediki ſegia menn at ſtyrki tennur, ſeyðið af henni druckið, dreifir ſaman hlaupnu blóði, læknar innvortis ſár og bléð-ſpyu, nærri ſo vel ſem vall-humall, þat ſtillir blóð-lát qvenna, læknar hvít klæða føll, líf-ſyki, og líka bak-verk.

Sama

Sama seydi má sá draga upp i nasir, sem hefir mikid nasa=blód, og leggia votann duk i því seydi=um ennid á ser, þat stillir blód=rásina.

Mura gefr grænann lit; menn taka þá af muru blødum so mikid hvør vill, saxa þaug vel, meria og kreista løginn úr urtinni, i gegnum sterkt lereft, sióda løginn litid, og láta koma nockud alun i hann; i þeim legi lita menn sidan.

Mura vex ecki nema i leir=jørd, sú sem hefir silfur litud blød nedan undir; enn hín sem græn er beggia megin, vex vídar og i fleira slags jørd. Hr. von Linne.

Mura marin saman vid salt og edik og løgd vid iliar, læknar blód=sótt og búk=laup. Hr. Gunnerus.

Urtin er gott fódr alls bú=penings.

CXXII.



CXXI.

## Músar-eyra.

*Hieracium, Pilosella, caule repente Auricula muris officinarum.*

*Syngenesia Polygamia.*

Nor. og Dan. Muus-Øre.

Tydsk. Maus-Oehrlein.

Þessi urt, sem vex sudr á landi, er halldin góð vid qvid-sliti og blód-sótt; enn saud-fenadi er hún kollud óholl.

CXXII.

## Mygla.

*Mucor, Mucedo. Cryptogamia.*

Þessi ávoxtr i rotnun og slími þeirra hluta sem hann ásetst, timgaz jafn-ódum sem þeir eydaz af fúa; hann giorir oll mat-væli óholl, þó er myglan vest bornum og brióst-veikum monnum; hún giorir ollum qvik-fenadi lúngna sótt og hrygglu, þegar hann

etr

etr mygglad hey, og lömb drepaz oft áf því; þeir sem hrysta mygglad hey fyri pening á vetrum, þúrfa vel at gæta sín, at ei fari myglú rykid ofan i þá, þat skadar miog brióstid, hellst lúngun.

## CXXIII.

## Myra = bláber.

*Vaccinium oxycoccos*, *Myrtillus repens*. *Octandria Monogynia*.

Dan. og Nor. Trane=Bær, Myre=Bær. Þydsk. Mooß=Beeren, Sumpf=Beeren.

Þessi ber eru súr, og einsaman litt æt, enn betri ödrum berium at fá af þeim svartann lit eda blek, sem getid var ádr um Adal=bláber.

Seu þessi ber med miklu sykri tilbúin, verdr þar af eitt hid lystugasta músl, og merkilega kælandi, hallda menn sama músl hollt þeim mönnum, sem hafa skir=biúg, eda hollds=veiki.

Gull=



Gull-smidir siéda og hreinsa silfr, i legi þessara beria, ei sídr enn annara blá-beria.

## CXXIV.

## Myra = fióla.

*Viola paluſtris, acaulis. Syngeneſia Monogamia.*

Nor. Myr-Fioler.

Dan. Fioler med aſke-farvede Blomſter.

Þessi fióla hefir vidlíka verkan og adrar fiólur, enn má vera nockud krafta minni.

## CXXV.

## Myra = sef.

*Scirpus paluſtris ſive cæſpitoſus. Triandria Monogynia.*

Nor. Myyr-Sæv, Myyr-Bust, Finn-Skiæg.

Dan. Myre-Sif.

Þetta myra-sef er hallid ret gott miólkur hey fyri kyr; má brúkaz vidlíka og almient sef. Nockrir

Nockrir hafa þakid med þessu myra sefi hús og hey, og hefir velfarnaz: enn her um pláts, hvar allr þorri lands er svardlaus, og hey-fáng lítid, mun þat flestum þykia ofdyrt þak.

**Myri-kiarne, siá Mari-kiarni.**

CXVI.

**Netla.** Stóra Netlan.

*Urtica dioica. Monoecia Tetrandria.*

Nor. Stor Brænn-Hætte.

Dan. Stor Brende-Nælde.

Þydsk. Heiter-Nesseln, grosse Nessel.

Rótin þeirrar stóru netlu i víni sodin, og med hunángi mengud, er gód vid hósta og hryglu, og allri brióst-velki, því at hún hreinsar vel lúngun, eydir úsi, og dreifir öllu slími, sem setz hefir og stadnad fyri bróst-inu, og tekr madr þá tvø eda þriú spón-blød, qvølld og morgna.



Af netlu má fá hør, og þat hefir eg reynt á netlu þeiri, sem eg hefi fengid híngat úr Steingríms-firdi.

Enskir giora smá lereft úr netlu-hør, sem þar af kallaz nettil-dúkr, eda netludúkr: af sama efni gioriz líka gódr skrifpappir.

Saxada netlu eta hæns vel, og bú-peningr allr etr únga netlu, ádr enn hún hleypr i nióla og trenaz: peningr miólkar vel af henni, verdr og so hraustr og feitr; tvisvar á sumri má slá netlu, um Jónsmessu og um høfud-dag; þridia hvort ár verdr hún þó at fella fræ, annars deyr hún út.

Netlu-knappar eru i Sviaríki etnir med káli, eins til búnir, á medan þeir eru úngir.




CXXVII.

## Netlan daufa eda blinda.

*Lamium album, Urtica mortua.*
*Monoecia Tetrandria.*

Nor. Qviitdaa.
Dan. Blind-Nelde, Døv-Nelde.
Þydsk. Taube Nesseln.

Þessi netla er her fyri nockrum árum innlend ordin, því hennar fræ hefir boriz i garda vora, og lifir so enn undir veggium allann vetr; hún er frá fyrri tíd heim-alin á Flat ey á Breida-firdi; má hún brúkaz eins og stóra netlan saman vid kál, snemma á vori, og líka fyri penings fódr.

CXXVIII.

## Niardar-vøttr.

*Spongia officinalis-*

Nor. Siø-Svamp, Siø-Vott.

Þessi sæ-urt þurkud, brúkaz til at fægia og húda málma, líka tre-smíd.



I sesðum og jafnvel sængum, helldr sig vel eitt ár, eda lengr, fylling af niardar-vattar blómstrum, enn þeir verda vel at afvatnaz þar til; þeir kunna líka at brúkaz fyrir þvøgur, og þvara i kyli og ønnur sár.

## CXXIX.

## Næpa.

*Napus. Tedradynamia filiqvofa.*

Þessi urt er ordin mønnum so alkunnug, at hún má kallaz her innlend, og allir vita, at hún er brúkud til mann-fædis.

Næpna fræ má leggia i vín, og drecka sídan hvørt-tveggia saman, þat opnar og dreifir; vatn má líka til þess brúka, þat er gott vid kolldu-syki, og bólna-sótt: líkakalla nockrir þat gott til at deyfa losta.

Allar næpur, rófur, og þesslags rætur, sem eru Tedradynamia filiqvofa, bæta melting og maga-slím, leida hland-stein og tídir qvenna, eyda skir-biúgi.

Se næpna-fræ bleytt i Midi, ádr enn sád er, segia menn at næpur verdi sætari, enn þá verdr líka jørdin at vera góð og sæt, hellst hvørki súr nie barkandi.

## CXXX.

## Olafs-súra.

*Rumex didymus, Acetosa Britannica.*
*Hexandria Trigynia.*

Nor. Field-Syre, Berg-Syre.

Þessi súra med kringlóttum blødum, hefir sama kraft sem almenn súra; hún dreifir bólgu vidløgd, og lætr mein vægia. Af þessari súru giøra Lapp-Finnar súr-miólk, og geyma til vetrar.

Rót hennar opnar vel, enn fræid styrkir hiartad, i víni innteķid. Løgr hennar brúkaz af nockrum, at bera i dymm og stird augu, og þykir þat bata þaug, þat hafa líka nockrir menn her vel reynt.



Til matar má hana brúka, sem almennilega súru, og med sama tilbúningi, til ymsrar mat-giordar.

## Olúa = gras siá Madra.

## CXXXI.

## Pipar = rót.

*Raphanus rusticanus. Tetradynamia siliqvosa.*

Pipar-rót vex hiá hvørium manni, er vill; og þar sem hún er einu sinni pløntud, lifir hún og eykst af sialfri ser árlega, enda má planta hennar rótar-ánga út, hvar vid hún margfalldaz miøg.

Smá-rifin þessi rót er gott og hollt krydd, til áláts kiøts og feitra fiska; hún er einhvør hollust urt i móti skir-biúgi og hollds-veiki, skynsamlega brúkud.

Vín, sem á henni hefir stadid nockra stund, drepr orma i manni, at qvølldi

druckid

druckid: þat eydir og bland-stemmu at morgne druckid, og læknar vel alla óreglu magans. Pipar-rót hreinsar blód, bætir hæsi og þurrann hósta, blód-spiu, fóta-veiki og vats-sótt.

Pipar-rótar blød sundr rifin, og velgd i potti, løgd sídan vid brennandi heima-komu, hafa góda verkan til at kæla og dreifa.

Of miøg etin pipar-rót giørir høfud-verk, og døpur augu, vidlíka sem mustardr og karse, þad allt hefir mier tídum reynst; urtin vex best i deig-lendi og forsælu.

**Púka-bit siá stufa.**

**Púng-arbi siá hiart-arbi.**

**Púnga-gras siá hol-urt.**

**Puntr siá hrossa-puntr.**



CXXXII.

## Purpura = blómstr.

*Epilobium Tetragonum palustre.*
*Octandria monogynia.*

Nor. Bred = mjetle, eda Bred = miólke.

Þessi urt brúkaz til matar sem kál, snemma á vori, því þá eru blødin miúk og lagar = full.

Þessi urt hefir marga hvíta og lánga stikla undir jordinni, sem má til matar brúka; þó eru þeir bestir at þurka þá og mala til miøls, og má þat miøl bædi brúka til brauds og grauta.

## Qveikía = sly siá Sly.

## Qveisu = gras siá Hor = blaka.

Adrir kalla eina Gentianam Qveisu= gras ɔ: purpuream.

## Reidinga = gras siá Hor = blaka.

CXXXIII.

## Reima = þari.

*Fucus, caule tereti, loreus.*

Nor. Rem=Tang, Siø=Remmer.

Er halldinn eitt skársta æti=þáng; má og brúkaz sem mar=þrádr.

**Remmu=blod siá hor=blaka.**

CXXXIV.

## Reydi = kúla.

*Boletus luteus*, Gunneri. *Agaricus, pileo convexo, suillus*, von Aphelens. *Fungus Divi Georgii. Amanita campestris. Crygtogamia*

Nor. Mat=Sopp.

Dan. Pølse. Pydsk. Stein=Piltz.

Utlendskir kalla þennan svepp Champignon eda Skampinion. Dr. Zinche segir at þessi sveppr se hinn allra besti og þægilegasti til átu, af ollum æti=sveppum.



Varma-bed má fyri þá tilbúa, hvar þeir vaxa: enn her taka menn og brúka þá eina, sem villir vara i úthøgum.

Mat-búning þeirra má finna, i mat-urtabók. E. O S. §. 133.

Hægasti tilbúningr fyri fátæka bú-menn, er at leggia þá eina nott i vatn, sidan flisia, hreinsa og saxa til grautar, sem strax er etinn med súru jucki; ellegar þvo þá nya, sióda nockud, og súrsa sidan i gódri genginni syru.

Þessi sveppr hefir sem hatt upprettann, og brettiz hann, þvi meir sem sveppurinn vex, enn fanirnar eru raud leitar nedan undir.

Nockrir herda og geyma so þessa sveppa, og má þá so til matar brúka; Von Aphelen. Zinchen segir at þurkadir og malldir sveppar seu gódir at brúka til ymsra retta, og hafi þann kost, at þeir giori nyann friskann smeck, eins og sveppurinn væri friskr og nyr.

CXXXV.

## CXXXV.

# Reynir.

*Sorbus acuparia. Icosandria Trigynia.*

Nor. Rogn, Rogne-Træ.

Dan. Røn, Rønne-Træ.

Þydsk. Qvitsch-Beeren.

Reyni-ber þerra, draga saman, stilla blód-lát og líf-sýki. Beriunum má safna grænum, og þurka síðan vid ofn; hænsa-fædi eru þaug og agn fyri titlinga.

Tred er þurt, hart og seigt, hentugt til amboda; reyni-qvistir gefa godan svartan lit; af þurkudum og møldum reyni-berium, ma giøra gott og hollt braud.

Reyni-rót er hentug til hníf-skafta, mat-sleifa, og alls þess smáa og fína renni-smídis.

Reyni-laufi safna bændur i Norvegi, því þar er þat kallad gott fódr fyri kyr, hesta og geitur, saud-fe og kálfa; eins er bork-urinn þurkadr.

Reyni-

 

Reyni-ber siòda menn, med kál-blödum, og gefa svínum og kálfum sem hvor tueggia fitna þar af.

af øllu því, sem vidar kyns er á voru landi, er reynir þat besta og varanlegasta tre, til allrar brúkunar.

Reyni-beria saft hreinsar vel, og læknar líka vats-sótt; reyni-blómstr eru stór prydi urta-potta, og hallda ser líka lengi heilum, án þess at følna.

hestum segia menn ei megi gefa ofmikid af reyni-laufi, því þeir skáldiz þar af.

Med øllum þessum kostum, hefir þó reynir ecki getad halldid gódum þocka hiá heimskum mønnum i landi voru; því fiandi vor, sem vill giøra oss allar Guds gáfur grunsamar, hefir komid þeim til at hallda reyni vera óhappa tre, so sem til dæmis; at reynir megi alldrei vera keip-nagli á annad bord báti, nema á bædi se; annars se ber vodi, at bátnum hvolfi; annad þat, hann megi ei vera skut-draggs nagli, nema

hann

hann se líka i framm=dragi; þridia þat, at hvørki konum manna, ne neinu der=qvikindi i dyra=ríkinu gefiz kraftar til at fæda, þar sem reyni=tre er nockurs=stadar i húsi. Þá er hid fiórda at vinátta manna hafi þar enda, er tveir sitia sinn meginn hver vid elld þann sem af reyni kyntr er.

CXXXVI.

## Reyr, Reyr=gresi.

*Holcus odoratus, Aira odorifera. Gramen Mariæ Borussorum. Polygamia.*

Nor. Mari=Gras, Lugt=Gras.

Vegna sinnar ágætu luktar hefir þetta gras fengid þá virding, at þat er veniulega þurkad, og lagt á medal klæda, af hvøriu helst tægi sem þaug eru, líka so á milli bóka; gefr hún því øllu, sem hiá henni liggr, sætan ylm, og ver þat líka møli og mocku.

Gras þetta sodid med feiti, læknar útbrot, og se seydid af því druckid, rekr

þat



þat vilſu út af manns líkama, i gegnum ſvita-holur hørundſins, þat er gott vats-ſiúkum mønnum og veſsa fullum.

## CXXXVII.

## Rif-hrís.

*Betula procumbens. Tetrandria.*

Dan. Krat.

Þetta er úrkyniad birki, krekløtt, ſem ecki verdr hærra, enn medal manni undir hønd, dugir lítid til kol-gerdar, enn hentugt til elldi-vidar; þeſs lim er gott á vetrum til beitar, og líka gelld-neyta fódurs; bløbin gagna til ſama, ſem ønnur birki-bløb.

## CXXXVIII.

## Rófa.

*Rapa, Rapum. Tetradynamia ſiliqvoſa.*

Dan. Roe.

Um rófu má ſegia hid ſama, ſem um næpu heſir ſagt verid; rófa er kollud góð vid munn-ſvida

munn-svida, líka skir-biúgi og kolldu. Bædi rótin siálf, samt løgr hennar eda seydi af henni, er gott vid hósta; hún er optast mat-búin sem næpa hiá bændum; enn smeck-vandari menn lata þær mat-reida hvoria fyrir sig, med ymsu móti.

CXXXIX.

## Rúgr.

*Secale. Triandria digynia.*

Þydsk. Rocken.

Rúg þeckia allir, sem er þat korn-gresi er best nærir: rúg-braud nybakad er gott medal til at lífga med þá menn, sem af van-megni i omeginn falla, se því vormu halldid fyri vitin á þeim.

CXL.

## Sand-stør.

*Carex arenaria. Monoecia Triandria.*

Nor. Sandstar, Kryp-Star, europæisk Sarsaparil.

Þessi stør giørir her sama gagn og melr, bindr vel fok-sandin, og er halldin gott nauta-fódr.

Gun-

 

Gunnerus biſkup ſegir, at rót þeſsarar ſtarar meigi brúkaz i ſtadinn fyrir Sarſaparils-rót, enn læknar brúka ſeydi þeirrar rótar, at láta menn drecka i móti ſára-ſótt, illſku kaunum, gømlum útſlætti, lángvinnum høfud-verki, lida-verki, ſamt øllum meinſemdum lifrar og milltis. Siá Blancardi Lexicon.

Her i minni land-eign, og þó vídar ſe leitad, fær madr alldrei betra eingis petti, enn þat, ſem ſandſtør tímgaz i, og i hlyvidri med ſólar hita verdr hún her rúmlega yfir ſæ-lendſka alin at hæd, hellſt hvar hún er nykomin i lenduna.

## CXL.

## Sand-vídir.

*Salix aneraria. Dioecia diandria.*

Nor. Sand-vie.

Þat tel eg med lucku minni, at þetta óvand-fædda vídir kyn elr ſig á þeſsari lendu; þvíat væri þat ecki, þá mundi ábylis jørd min fyri laungu ordin at audn og eydi ſandi.

Sand-

Sand-vídir hefir lodin bløð, og lángar tága rætur; fræ-hulstr hanns, (sem hægast er at skoda um summar-mál, strax þegar madr kemst at þánni,) eru nær so stor sem þúfu-tytlings egg, lodin og miøg barkandi: þykir mer ecki minna enn hálf reynt her, at þaug hafi meiri krapt til at barka og draga saman, enn annar vídir, og megi því ei sídr þar til brúkaz.

Lauf þessa vídis er her slegid med liá, og er gott fiár-fódr, þó er hann þarfari at binda jard-veg, og því læt eg miøg spara slátt hanns.

Hann vex her i einum saman sandi, enn ecki hefir eg getad enn þá til vissu neinrar komiz á þann veg, at planta hann; þó veit eg þat, at hann þarf rakt og sendid land, leir þolir hann nockurn, enn ecki feita jørd.

Þat eru mestu jardar spiøll at rífa hann, nema þar sem hann er ordinn daudr, og at ber-beinum.



CXLII.

## Sauð = bani.

*Aconitum cæruleum. Napellus.*
*Polyandria Trygynia.*

Sviar kalla Storm = hatt.

Þessi jurt er halldin eitruð invortis, bædi monnum og fenadi; enn útvortis er hún søgd góð, at leggia yfir bólgu og þrota, at dreifa þeim.

Urtin qvað hvergi vaxa her i landi, nema austr á Burstar = felli.

Norskir bændur seiða þessa jurt alla með með rótinni, og þar við bæta þeir stundum tóbaki; i þessu seydi þvo þeir bú = pening, at drepa lús á honum.

Hr. von Linne telr þessa jurt ban=væna, bædi naut = peningi og geit = fe, hellst því sem nykomið se i land manns, og ecki þeckia urtina; þat er þó hyggia mín, og fleiri bænda her vestan lands, at skilningar vit alls bú=smala, vari hann við allri ólifian, so hann

fordiz

fordiz hana siálf=krafa, nema húngr eda þorsti naudgi honum, á móti náltúru hanns.

## CXLIII.

## Sand=laukr.

*Triglochin maritimum perenne, palustre.*
*Hexandria Trigynia.*

Sv. Kiærsælting.

Þetta gras er besta fódr bædi nauta og sauda, enn af því her kemr opt med sand=falli af austri líka sædrif, enn urtin siálf er miög sollt, þá skilr saud=fe hana eptir i beitar landi á vetrum upprifna, sem eg hefi opt adgætt her skamt frá bæ mínum, i roku hallendi.

Tonning hrósar þessari solltu seitu urt og segir at gott væri at sá til hennar, þar sem at er væta og mosi, og helst huar vatn stendr yfir mosanum á vetrum, hún vaxi vel, þar sem hún er einu sinni innkomin.

Her hefir eg ecki, þat eg man, sed hana i full=búnu fræi, og hefir eg þó gætt þess,



helst þar er bú-jord mín tekr nafn af þessari jurt, sem her er mikid af, og máske hafi verid meira ádr til forna, þegar bærinn tók nafn af henni.

At saud-fe skili þessa urt eftir i haga vegna offelltu, kann eg ei víst segia, því hún kann at rífaz upp af því, og verda sídan eftir at því óvoru; líka hefir feid her i sama stad gras-vídi, sem er þess sælgæti.

## CXLIV.

## Saud = qvístr.

*Salix repens, pumila, graminea, herbacea. Dioecia diandria.*

Þessi vídir = tegund er ein þarfasta, því hún h fir vidlíka verkan, sem hinar adrar vídir = tegundir, enn er þó miúkara fódur fyrir allann pening, því fitnar peningr fliótar af honum enn ødrum vídi.

Þat er almenn søgn, at þar verdi betri skinn af slátur = fe, sem þat hefir gengid á saud=

saud=qvistar landi um sumar, enn þó ønnur góð beit væri.

Kálfar, lømb, og allt undan=elldi, hefir alldrei betri þrif, enn þegar þat fær beiti=qvist; þat er betra enn hið besta hey, því þessi saud= eda beiti=qistr bædi fædir, elr og feitir allann bu=pening og bú=smala; þó er hann betri fyrir geldann enn mylkann pening.

CXLV.

## Sef.

*Juncus, Schænus, Triandria Monogynia.*

Nor. Kyll=Frytle.

Dan. Siv=Græs.

Þydsk. Wasser=Gras.

Menn segia, at mergurinn innann úr sefinu, kunni at brúkaz til kerta=raka.

Sef kalla vorir landar og so Scirpus culmo tereti lacustris. Gunnerus. Hann

 brúkaz



brúkaz i sængur, því at fiær tímgaz eigi þar i, so sem i hálmi; þat má vel brúkaz fyri tróð á hús, þegar þat er áðr vel þurt, og best árs-gamallt, skal þat tróð vera vel hálfrar álnar þyckt i fyrstu.

Næturnar geta orðið at mati, malaðar sem korn, og brúkaz þat miøl til brauðs eða grauta.

Nockrir segia þessa urt vera eina með Triandria digynia. enn þat hefi eg eigi getað sieð her vestra, þar sem eg hefi atgætt; þat munar og so litlu.

## CXLVI.

## Sel-gresi.

*Plantago angustifolia, lanceolata, coronopus. Tetrandria Monogynia.*

Rót þessarar urtar kallaz svína-rót sum staðar; seyði af henni græðir og þerrar; inntekin hressir hún, góð við qvefi, blóð-sótt og búk-hlaupi, drepr líka orma i iðrum manna.

Se

Se þeſsi rót marin ſaman vid vall-hum-al, og ſo løgd vid ſár, grædir þat enn betr.

Rót þeſsarar urtar i víni ſodin, læknar alla breſti hland-blødrunnar, ſe hún ſo etin.

Sel-greſi, má brúka ſem kál, til ſúpu á vor-dag, at dæmi Nordmanna, fyrr enn urtin kemr i blómſtr; enn upp frá því er hún lakari.

Sel-greſi matbúid og etid ſem kál, læknar innvortis ſár, lif-ſyki og allan blód-gáng upp eda nidr; ſama verkar løgr af því; hann er og ſo gódr at væta i honum klút, og leggia vid hofud-verk; ſe hann i augu edr eyru borinn, læknar hann hvort-tveggia bædi ſyn og heyrn.

Sami løgr læknar munn-ſvida, ſamt bólgu i munni og qverkum, ef menn ſkola opt munninn þar med.

Urtin ſiálf eydir og dreifir heima-komu, og annari bólgu, ſem er heit.



Sina.

*Gramen exsuccum, Carex exsucca.*

Þetta visnada gras, má brúka til elld qveikiu, sem annad tundr; því segia menn um reidi-giarnann mann: hann er eins og elldr i sinu.

CXLVII.

## Skarfa-kál.

Rettar at kalla Skurfu-kál (edr eptir ordsæri Englismanna,) Scurf, Scurfiness, Scurvy-grass.

*Cochlearia. Tetradynamia siliqvosa.*

Nor. Cochleare, Finnmarke-Kaal. Stort Erichs-Græs, Skiørbugs-græs

Dan. Skee-Urt, Cochlearie, Skiørbugs-urt.

Þydsk. Løffel-Kraut.

Þessi urt er halldin ein sú allra besta i móti skir-biúgi, hún er og góð i móti tída-stemmu qvenna.

Af

Af ſkarſa-káli gioriz grautr, ſem af ødru káli, má þat líka ſallta til matar, og geyma ſo; líka gioriz þar af gott og hollt ſalat.

At ſetia brenni-vín, franſkt eda danſkt, ellegar og ſo franſkt vín á ſkarſa-káls blómſtr, gefr hollann dryck á faſtandi maga, helſt þeim ſem hætt er vid ſkir-biúgi; gott er líka at ſkola þar med munninn vid and-ſylu.

Gott franſkt brenni-vín, ſem ſtadid hefir á blómi ſkarſa-káls (helldr enn blødum þeſs) her um þriá mánadi, er ypparlegt til at ſmyria med kullda bólgu, og allan þann kullda, ſem ſetr ſig á viſſan ſtad líkamans, og hleytir þar ſaman blódi; þó er enn betra at væta miúka lyu i þeim ſama legi, og leggia hann yfir kullda þrotann.

## Skari-fífill, ſiá Unda-fífill.



## CXLVIII.

## Skelia = mosi.

*Lichen gelidus, crustaceus. Cryptogamia.*

Nor. Kall = Mossa, Kall = Skiærpa.

Þessi mosi hefir vidlíka, edr nockud veikari krapt at lita allslags verk, sem sá almenni litunar mosi: enn af því vídast er lítill fengr í honum, þá giøra menn ser minna ómak at reyna hann betr.

**Skolla = fíngr, siá Jafna = bródir.**

## CXXLIX.

## Skya = fall edr Skya = blóm.

*Flos coeli. Tremella Nostoc, plicata, undulata. Cryptogamia fungorum.*

Nor. og Sv. Sky = Fall.

Dan. Trølld = Smør.

Nockrir her vestra kalla þetta sveppakyn tún = krepiu, af þess verkan, at bædi her á bæ og so vídar er ecki háskalaust, at gánga

sánga í hallendi eptir regn, vegna þess menn renna úr spori á skya-fallinu: einnin skemmiz miög hey, sem úti liggr i regnum, af þessum sama sveppi, sem hefir líka óþæga lykt.

Þegar gras-ormurinn spillti her mest túnum og engium manna árid 1777, þá var þar lángmest af hønum, sem skya-fallid var vant at fylla alla rót á sumrum, og hellst haustum, enn þat sama ár sást einginn af þessum sveppum: hefir því, máske, gras-ormurin lifad á sømu saft jardar, sem sveppr þessi vex af.

Vatn vid einsaman sólar-hita destillerad eda dropid af þessum jardar ávexti, er sagt, at Sveitziskir læknar brúki til at stilla verki innvortis, og lækni allrahanda sár, líka átu-mein, eda krabba, þegar madr vætir dúk i því, og leggr vid útvortis.

Þydskir bændur styrkia med því hár-voxt; þeir trúa og so því, at þessi ávoxtr, þurkadr



og malinn i smátt dupt eda miol, verki sama og vatnid.

CL.

## Sly.

*Byssus lanuginosa. Flos aqvæ. Conferva palustris. Cryptogamia.*

Nor. Vass-Blom, Fisk-Glunga, Wass-miøl.

Sv. Vatne-Blommer, Watn-Glunga.

Þessi vats-urt brúkaz til raks i kerti, og so kolur, og er hún þar til i morgu betri enn sísan.

Hana má brúka i hægindi og sængurver, líka lætr slyid spinnaz sem ull, vili menn brúka þat hentuglega til at stappa dags- og nætur-sot manna á milli fódra, eda til annarar uppfyllingar; enn so varanlegt sem ull verdr þat ecki.





CLI.

## Smári.

*Trifolium pratense, flore albo. Diadelphia, decandria.*

Dan. Klever-Blad, vor Herres Brød, Himmel-Brød.

Þydsk. Klee, Klever, Weisen-Klee.

Þessi urt hefir frá fyrri olld etin verid, af monnum her á landi, bædi hrá og líka sodin i miólk; væri þá gott at saxa hana sem kál, þar til at sa matr yrdi frambærilegr. Siá mat-urta bók Hr. E. O. S.

Irar giora gott braud af blómstrum þessarar urtar, sem þeir kalla Chambroch, og verdr þat þeim at fullri næringu, gott væri at sá til þessarar urtar, þar hún er bædi hæf til mann-eldis, og líka gott fódr fyri allann qvik-fenad.

Smári hefir verid verdlagdr her i landi, þá smára tunnan kostadi 10 álnir.

## Smedíu-kál, siá Bería-arbi.

CLII.



CLII.

## Snóka edr Snáka=hvönn.

*Aegopodium, Podagraria. Herba Sti Gerhardi. Angelica sylvestris.*

Nor. Sqvaller = Kaal.

Dan. Vild Angelica, Svine-Kaal.

Þydsk: Gersck, Geiss-Fuß.

Þessi urt hefir sømu verkán, sem geitna hvønn, og er henni so lík, at þær skilr ei stórum annad enn þat, at þessi er minni enn hin, og er máske ei annad enn úrættud geitla, hún hefir þeckianlegra og og meira drag=farid innan i hvorium legg enn hin, sem er barkandi undir stødu, lands merki, og at þat se súrt.

CLIII.

## Soley.

*Ranunculus acris. Polyandria Polygynia.*

N. Smør Blomster, Soløie, Hane-Fod.

Dan. Drage=Tœr, Hane-Fod, Smør=Legger, Smør-Urt.

Þessi soley marin og vidløgd, hleypir upp vats=blødrum, og af þeim verda fúl

sár,

sár, ef at sóleyin er látin brenna inn i hollð manns; enn eins er hún góð og spansflugr, ef at hún liggr ecki lengr við hørundið, enn til þess þat roðnar, og þá kemr síðan blaðra af siálfri ser. Þegar þær bløðrur falla, þá er gott at leggia þar yfir grædiblöku.

Sóley er óhollt fóður fyrir allann pening, enn þó verst fyrir ásauð, sem sýkiz þar af.

## Solsequia siá Fialla-fífill.

## CXLIV.

## Sortu Lyng.

*Uva ursi. Arbutus, caulibus procumbentibus, foliis integerrimis, sempervivens. Decandria Monogynia.*

Nor. Meel-Beer, Miøl-Bær, Miølne-Bær.

Þetta lyng barkar miøg; seyði þar af, ellegar af bløðum þess, enn hellst af þess berium, (sem kallaz muðlingar, eða skilianligar að segia munnlingar,) ef þat er i súpu arla á morgni



morgni etid, er einkar hollt fyri þá sem þiást af stein-sótt, ellegar hland-stemmu.

Þat stillir líf-syki, þegar maginn er ádr vel hreinsadr; sama verkar seydi af blødunum, sem thee druckid.

Sortu-lyngs blød reykia enskir menn med tobaki, ellegar i tóbaks stad, og gáfu her um 5 ríkis-dali fyri pund af þeim, þegar þeim vóru fyrst færd þessi blød frá Vest-Indium, og nefnd Jackas Hapuk.

Ullar verk er litad i þessa lyngs legi, sem alkuunugt er, og verdr gul-móraudt.

Af vatni, sem lengi hefir á sortu-lyngs blødum stadid, má giøra blek, med því móti, at láta koma eitt lód af járn-viktrili i einn pott lyng-lagar: næsta dag eptir er vicktrilid runnid og blekid algiørt, sem þat kann at verda, hafi þad stadid á hlyum stad um nóttina, annars þarf tvær nætur; betra er at hálft lod gúmmi komi þar til; i stadinn fyri viktril má jarn-svarf hafa, enn þá verdr lengr at standa, og er þetta blek,

blek, sem her i landi brúkaz, so undir komid.

Af sortu-lyngs og sortu legi giora menn alment blek, med mikilli seydslu, og vidir-legium þar til; er þat vel brúkandi, hellst á þyckva og setta skrift.

Sviar lita grátt med þessum blødum og alúni; líka barka þeir med þeim ledr.

Hálft qvintin af þessum blødum, eda helldr berium, inntekid hvørn dag eptir annann, i hænsa- edr annari þesslags-súpu, 10 og allt til 14 daga, segia menn brióti stein; þar til má og brúka blødin þurkud og malin i dupt, sem eins er medfarid. Zinche.

Þessum raudleitu berium má safna á hausti, þaug fást stundum ecki fullordin, og þá eru þaug þrukud vid sól, enn verda þar af nockud súrari.

Menn meria þaug, kreista úr þeim løg-inn i gegnum lerept og sióda hann i potti til þess hann þycknar, er hann því betri, sem hann er lengr sodinn; af þessum legi



taka menn nockur spón blod, blanda þar i víni og sykri, og reida þetta fram, til ídífsingar med allslags steikum.

Þessi saft orsvar blódid og matar lystina; adrir sallta mudlinga i sykri og ediki, og þegar þá skal frambera, blanda þar vid sykrudu víni.

## CLV.

## Söl.

*Alga saccharifera. Fucus folio polytomo.*

Nor. Søll, Søll-Blad, Blad-Tarre, Bu-Tarre.

Dan. Stor Strand-Klever.

Sölin giöra miúkt líf og næra þó, hafa þægann smek, eru holl og verda fliótt hvörium manni at næringu, líka þó veikr og lemagna se.

Sölin hafa mikid fínt sallt i ser, og eru holl i kölldum siúkdómum, þaug giöra bædi matar lyst og þorsta, lækna klyu, veria sió-syki, uppþembing og hard-lífi.

Þaug

Haug greida alla náttúrlegar rás lík=ham sins, haug feita mann, og styrkia bædi karla og konur til barn=lagnadar; um þessi sol hefir vor sálugi lærdi madr, Landphysicus B. Pálsson, serilagi skrifad ágætann bækling, sem er betri enn so, at mitt hrós sæmi hann.

Þeir sem med ofdrykiu hafa spillt reglu maga sins og blóds=tempran, hafa gott af því, at brúka sol fyrir mat og krydd næsta dag.

Skottar eta sol, ei sidr enn ver. Gunn.

CLVI.

## Sølva=mædur.

*Fucus ciliatus*, edr helldr *reticularis.*

At þetta kyn siávar ávaxta se, eptir nafninu, vidur=elldi sølvanna, eda ønnur frióſgan, kann eg ei fyri víst at segia, enn hitt er víst, at ecki vaxa sol nema þar sem sølva=mædur eru fyrir; og sagan er sønn,

 at



at nockr ágiarn madr, sem átti Hollt, einn bæ i Saurbæ sydra, þóektiz ei fá nógann sølva fioru toll, og løgfesti sølva-fioruna; enn næsta vor kom so mikid is-rek, at allar sølva-mædur rifuz upp, uxu þar ecki søl heil 3 ár eptir; þar af siá menn at sølva-mædur eru annad hvort ung-vidi sølva, eda nockur ønnur urt, sem skylir at þeirra frævan.

Sølva-mædur eru bestar af øllu þángi, til at bera á aldingarda til ræktanar, at hausti; og er ei óliklegt, at þær se ei verri, enn annad þáng til átu.

## CLVII.

## Stein-blada þari.

*Coralloides. Cryptogamia.*

Þetta Lithophyton er siald-seed, þat rekr þó her i Patreks-firde stundum, i austnordann sióar gángi; er þessi steinda urt skopud sem søl, og at því leiti hentugri til at húda málma, strax úr fioru tekin, enn

adrar





adrar stein=urta tegundir; hana má og so brúka til ymsrar annarar húss=pryde, vidlíka eda betr, enn þat annad sem skel=dyra kynin gefa.

## CLVIII.

## Stein=brytill, Stein=bríótr.

*Saxifraga. Decandria, digynia.*

Nor. Field=Frue, Berg=Krans, Lunge=Græs, Feld=Rose.

Þessi urt hefir margar tegundir, enn kenningar nafn hafa þær allar af því, at fræid fyrst, og sídan rótin urtarinnar, brióta eda rettar sagt, eyda frá ser grióti og klettum, á medan þær eru at vaxa, (so sem líka hvonn og fleiri urtir giøra); hafa menn trúad, at eins brióti þær stein i manni, og greidi bland=rás, samt tída=føll qvenna, inntekñar, en útvortis dreifi þær hvar sem þær eru vidlagdar.

Her meina eg helst þá Saxifragam, sem á fiøllum vex, og hefir brióskleg nedstu blød,

 sem



sem nú kallaz Saxifraga cotylidon. Seydi af þessum urtum brúka Normenn i móti upp-dráttar sótt, bædi manna og fenadar.

Stein-mosi, siá Geitna-skóf.
Stiúpu-blómi, siá Þreñingar-gras.
Storka-nef, siá blá-gresi.

CLIX.

## Stør, Star-gresi.

*Carex. Monœcia Triandria.*

Dan. Star.

Stør er alkendt myra-gras, eitt af þeim lakari fódur urtum, nema hvar fialla-stør hefir skiól af snió allann vetr, enn bestu og feitustu vøkvan af leysing hans á vori; sumir reikna þá veitu stør, jafn-góda hinni, er siór fellr yfir einu sinni eda litlu meir á vetri, þó at hún vaxi á lág-lendi, og er þat trúlegt, þar til hefir eg líka her i Sveit fleiri enn eitt flædi-engia dæmi.

Sú hvíta frodulega sast starainnar er goð at hella i voda stíngi, og líka er marin

marin eda tuggin stør gott medal, til at leggia þar utan-fyrir, sem flís edr annad þesslags er i holldi manns, þat er út þarf at ná, því hún mykir og gleidir, þar sem hún er vidløgd.

Þá løkustu stør, hellst árs gamla, hafa menn ádr haft til tróds; og mun þat vera vidlíka rád, og þeirra er bruka þar til sef, og se eins þykt.

Utan yfir torf leggia menn stør i smá vindlum, austr um land, og helldr þat vel regni, jafn-vel árum saman.

## CLX.

## Strand-kál.

*Plantago maritima.* Gunneri. *Crambe maritima. Triandria Monogynia.*

Dan. & Nor. Strand-Kaal.

Dan. Strand-Krage-Tæer, Ravne-Fod.

Þetta strand-kál er etid, sem annad kál, og eins tilbúid i Norvegi, þat hefir líka her verid giort.



Sama urt læknar sár og drepr orma, með því móti að hún purgerar, og hefir þess síðasta þó lítið gætt, þegar hún hefir her mat-reidd verið með rúg miøli gømlu.

Bløðin úng má brúka sem salat, enn þaug eru miøg søllt, og þess vegna hentugri til súpu.

Þegar urtin er orðin stór, segia menn, at supa af hennar bløðum, giøri nockurn høfuð-svíma.

Urtin lyktar miøg þægilega, enn missir þá sætu lykt, þegar hún er þurkuð.

Hún synis vera skøpuð af þeirri hæstu forsión til þess, at sió-maðr sem verðr at lenda við eyði sanda, hafi þó strax nockuð, sem endur-nærir hann.





## CLXI.

## Stúfa.

*Scabiosa. Morsus diaboli. Tetrandria, Monogynia.*

Nor. Grøn-Skoll, Blaa-Koll, Blaa-Borst, Skore.

Dan. Diævels-Bid, Enge-Knop,

Þydsk. Abbis. Teufels Abbis.

Þessi urt vex her á landi i aust-fiordum, enn ecki annars-stadar. Siá Islands Reisu-bók. Enn eg tel hana her, þó hún se mer ókend.

Þat er gømul skrøk-saga, at þessi urt hafi fordum haft nedan vid rótina hnúd, sem kunni at lækna allar sóttir, enn íllr púki, hafi af øfund bitid hann af, og því beri urtin þetta nafn.

Háleygir lita ullar garn døck-grænt, med blødum þessarar urtar: menn saxa þaug saman vid hóf-bløku, og sióda þaug so med ullar-garninu og litlu álúni i vatni, sídan



taka menn garnid upp, leggia smá-spækiur yfir ketilinn eda pottinn; þar yfir leggia menn tad-arba, þar á ofan lítid af øsku, þá garnid, aptr arba, og øsku efst; þar eptir er allt þetta byrgt med klædum, at gufuna leggi hvørgi ut, helldr safniz øll i garnid, þá verdr þat dock-grænt.

Hr. von Linne segir nockud ødruvísi frá: hann segir so: ny blødin leggiaz i løginn, siódaz med garninu, sem svarar fiski-sudu, og er so látid liggia i pottinum til annars dags, þá at morgni taka menn garnid upp, sem enn syniz ei litad; þá heita menn løginn á ny, garnid legst á tre-spækiur yfir pottinum, og ofan yfir alla gufuna er hvolft keri, so hún fari ei út, þvíat hún er eiginlega þat, sem grænkuna giørir; at morgni er allt úr pottinum tekid, undid, og blødunum burt kastad, lítilli øsku er bætt vid seydid, og er garnid þá seinast velkt þar nidri i, ádr þurkad se.

CLXII.

CLXII.

## Súra.

*Rumex vulgaris, Acetosa vulgaris.*
*Hexandria Trigynia.*

Dan. & Nor. Syre, Enge-Syre.
Þydsk. Sauer-Ampfer.

Þessi urt er bædi góð til lækninga og fædis; seydi súru rótar verdr raudt at liti, læknar mat leida, stillir þorsta og hita gall-sins, ver rotnan.

Saup af súru og skarfa-káli saman, er eitt hvört besta medal vid skir-biúgi, og gott köldu-siúkum mönnum.

Þessi urt temprar blóds hita, og hreinsar þat, enn styrkir hiarta og lifur, læknar gulu-sótt.

Súru má her vel i alldin gördum rækta, þat hefir eg reynt, og verda þá líka hennar blöd stærri og saftugri.

Súru-fræ stillir laust líf, þat fræ má þurka og steyta til miöls, hvar af gioriz

braud

 

braud eda grautr, sem þo verkar helldr enn ecki hart lif, hellst þat braud sem þar af goriz, þat læknar blód=sótt.

Af einum saman súru=blødum gioriz bædi innanlands og líka erlendis saup eda grautr, sem Danir kalla súr=kál: líka hefir her verid tilbúinn af þeim annar matr, i líkning af plock= eda láng=káli, sem her kallaz súrna=stappa, og þykir sælgæti.

Se súra brúkud i salats stad, med sykri og oliu og litlu ediki, er eitt hid besta hressandi og vidurqveikiandi salat, og er þó so hægt og vída at fá.

Um súr=miólk Finna skrifar Hr. E. Olafsson. Finnar seyda líka miólk med súrum, og dreka strax.

Af súru=rótum fá Normenn og Lappir gulann eda bleikann lit, sióda sídan verkid i lút, at liturinn se fastari.

Nockrir leggia súru=blød i vatn, sem þá súrnar, er þat dregr súru saftina til sín, og er druckid á sumri, strax sem þat er

súrt

súrt ordid, enn þat geymiz ei lengi, því so lítt tilbúid fúlnar þat vid lánga bid.

## Sveppr, siá Æti = sveppr.
## Sæ = arbi, siá Strand = kál.

## CLXIII.

## Sæ = hvonn.

*Imperatoria*, *Aſtrantia*, *Oſtratium*, *Magiſtrantia*. *Pentandria*, *digynia*.

Þydſk. Meiſter = Wurtz.

Þessi urt hefir verkanir líkar almennilegri hvonn, vermir og opnar maga, orfar ſvita.

Þeim ſem hafa nidur = falls ſótt, er hún gód, bætir hráa, eydir vindi i maga, ſtyrkir hofud.

Rótin ſodin og etin med ſeydinu, eda hrá ſopud og etin, er eitt beſta medal til at verka tída = ſoll qvenna, ſem hafa miſt þaug; kallar Hofmann hana guddomlegt medal þar til. Hana má og eta ſaxada i melgrauti eda braudi, til ſama gagns.

kallar



Vín, sem á henni hefir stadid, er sagt rett gód lækning vid innan-tokum, og øllum siúkleika magans, item hósta og hryglu, sem af kullda koma, líka vats-sótt.

Hvanna rótar dygdir, sem til lækninga þiena, hefir sæ-hvøn allar, og þó hellst þær, sem veria skadømu lopti. Vín, sem á henni stód, eydir lenda-steini, ørfar hland-rás og svita; rótin marin og løgd vid þrota og hnúta á líkama manns, eydir þeim.

**Tad-arbi**, siá **Arbi.**

**Tartufflur**, siá **Jard-epli.**

## CLXIV.

## Tiarna-ellting.

*Eqvisetum palustre, vel fluviatile.*
*Cryptogamia.*

N. Bu-snell. Sv. Knæ græs, Led-græs. Þydsk. Pferde-Schwantz.

Þessi urt er gott náuta-fódr, enn ecki annars penings; i hallæri hefir þat verid til

bragds

bragds tekid, at þurka þessa urt med rótum, mala sídan til miøls, og brúka þat sama miøl, med ødru, til grauta eda brauda.

Hún kann og so brúkaz, eins og um mosa er sagt, at geyma i vand-ræktada hluti.

## CLXV.

## Tiarna-størr.

*Carex acuta, limosa, maxima, Monoecia, Triandria.*

Nor. Rød-Star. Svart-Star.

Dan. Stort Cyper-Græs.

Þydsk. Cyper-Gras, Berst, Platz-Gras.

Þessi urt gefr i ymsum stødum upp-gripa slægiu, enn lett hey-fáng i bygdum, til hollda og mergiar, nockud betri til miólkur. Þá er þessi størr best, er tiarnir þorna upp af henni á sumrum, og se hún þá strax slegin, og þorne eptir hendinni.

Tíss-fióla, siá Hunda-fióla.



## CLXVI.

## Tófu = gras.

*Filix pumila, Filix mas, frondibus bipennatis. Cryptogamia.*

Dan. Bregne, Hanbregne.

Þydsk. Farenkraut.

Seydi af tófu = grasi segia menn gott vid qvesi, hósta, allri brióst = veiki, og kláda, þat opni milti, orsi hland = rás, eydi upp= þembingi, og ormum i manni. Zinche.

Falli hestr nidr án orsaka, sem menn kalla trøll = ridinn, þá má leggia nockud af þessari urt, undir túngu rætur hanns; hann kastar strax frá ser vatni sínu og tadi, og sú syki batnar hønum, so hann stendr heill upp; þetta skrifar Hr. Strøm.

Ena sømu verkan hefr tófu = grasid synt her á einni kú, sem i þriú dægur hafdi ei upp stadid.

Tou=

Tóu-gras er gott miólkur-hey kúa, og eitthvort besta fódr alls penings, sem læknar hann og styrkir siúkann og horadann.

Rætur þessarar urtar mega brúkaz til brauda, og þat hafa adrar þiódir einnin giört. Gunnerus.

Fátækir Normenn brúka líka miøl þessarar urtar til øl-gerdar, og bæta þar vid einum þridiúngi malts.

CLXVII.

## Trølla-grøs.

*Lichen albus, perforatus, maximus.*
*Cryptogamia.*

Þessi trølla-grøs eru miøg lík hreina-mosa, enn eru stærri og enn hvítari; þaug mega eins brúkaz, sem nefndr hreina-mosi, og hafa vidlíka verkan.

## Tún-fífill siá fífill.



CLXVIII.

## Túngl = urt.

*Osmunda lunaria. Cryptogamia.*
Dan. Maane=Rude.
Þydsk. Mond = Raute, Mond = Kráut.

Þessi urt er halldin góð við qvefi, og stillir fleiri afrásir líkamans; útvortis er hún viðløgð til at greiða fæðing qvenna.

Þó þessi urt se þyck og saftar=mikil, þá etr hana her enginn peningr, so hún ver sig siálf heila á støðla bóli, allt sumar; enn her er lítið af henni.

## Tún = krepia siá skya = fall.
## Tún = súra siá súra.

CLXIX.

## Vatna = soley.

*Ranunculus aqvaticus, capillaceus.*
*Polyandria polygynia.*
Nor. Vas = Soley.
Dan. Haaragtig Vand = Hanefod.
Þydsk. Wasser = Hanlein.

Þessi urt er halldin skaðvæn og jafnvel eitruð fyrir allan bú = pening, hellst

ſaud=fe, enda ſneidir allr peningr hiá henni i haganum; þat er óráð at þurka hana ſaman við annað hey; her vex mikið af henni, i ſyki nockru við vatnið, hvar hún er auð þeckt af faxi ſínu, og hvítu blómſtri.

CLXX.

## Vall=humall.

*Millefolium, Tonacetum, Achillea. Supercilium Veneris. Syngeneſia. Polygamia ſuperflua.*

Nor. Jørd=Humle.

Dan. Røllike, Garbe.

Þyðſk. Tauſendblad, Schaf=Garbe.

Þeſsi jurt er ein beſta læknis=urt til at græða ſár, og at ſtilla allt blóð=lát innvortis og útvortis, einkum ſeyðið af henni. Hún hreinſar blóð, brúkuð ſem thee, læknar innan=tøkur, uppſolu og bland=ſtemmu.

Utvortis viðløgð græn og marin, bætir hún høfuð=verk, item haul og fleiri eymſlr.



þurkud og steytt i dupt, hreinsar hún og læknar øll sár; i munni tuggin, læknar hún sárt tann-hold og qverkar. Ny rótin, þá henni er i nasir stúngid, segia menn giöri nása-blód, edr at minsta kosti, veki dreyra.

Seydi af vall-humli drecka konur, sem kenna ser letta-sottar i Svía-ríki. Þar er og so vall-humall brúkadr, til at troda utan med líkum manna i kistum, at þaug rotni seinna, og ná-lykt verdi minni af þeim.

Þessi urt, sodin i smiöri, læknar vel sár, útbrot og geitur barna.

Nockrir á medal Svía brúka hana i humalls stad til øl-gerdar, og segia menn þat verdi áfengt.

Klád-fellt se er gott at þvo i seydi þessarar urtar; þó er betra at leggia vøndul af henni, sodinn i vatni og heitann, vid þan klád-fellda lím.

Flest innan mein kúa og ásaudar læknar hún, se hennar seydi hellt ofan i fenadinn.

Sá

Sá sem hefir ofetid edr ofdruckid at qvolldi, drecki vel sterkt seydi þessarar urtar, sem thee at morgni, og hefir hann gott af því, líka hinn sem hafdi uppþembing af óhollri eda megnri fædu, þá maginn kunni ecki melta.

**Vargs = lappi, siá Jafna = bródir.**

## CLXXI.

## Vatna = sef.

*Scirpus paluſtris, culmo tereti, Scirpus equiſeti capitulo majori. Cryptogamia.*

Nor. Knap = Sef, Myr = Sef.

Dan. Siv, stor Siv, med Heste=rumpes Knoppe.

Þetta sef er svínum besta sumar beit, og líka á vetrum þurkad, gott fódr halldid i Svía = ríki.

Menn kalla þat og so gott i rúm fátækra manna, sem ecki eiga kost annars betra, því slær safniz ei at því.



CLXXII.

## Vats = arbi.

*Anagallis aqvatica minor, Veronica Beccabunga. Diandria Trigynia.*

Dan. Lemmike, Vand = Arve.

Þydsk. Bach = Bungen.

Þessi urt er miøg lík fergini, enn vex á þurrari stødum. Um þessa jurt hefir Theodorus Hólm giört bækling, sem er þryckt 1761, hrósar hann miøg þessari jurt i móti ólmra hunda biti, helst þeirri ferlegu verkan þar af, sem kallaz Hydrophobia. Han skrifar so.

Urtin er góð at leggia yfir ill kaun og ønnur sár, hún er og góð at leggia yfir sár augu, þaug hreinsar hún og tekr ský af þeim; líka bletti af húdinni. Malin saman vid tóbak hreinsar hún nasir, læknar høfud- og tann = verk.

Se hún malin til miøls og sodin i graut, og sá sami eins og bakskr vidlagdr flag-brióskid, læknar nidr = falls sótt og ásvif.

Innvortis





Innvortis hreinsar urtin lifrina, og orsar tída-søll qvenna; hún er góð fyri þúnglynda menn, helst løgr og saft úr henni, sem giørir miúkt og opið líf, er og góð við nidrfalls sótt, hún þynnir blóð, og hreinsar magaslím, hún drepr orma i manni, því hún er beisk.

Allra mesta gagn urtarinnar og hennar rótar, er at lækna ólmra hunda-bit; er þá dupti hennar sáð i sárið, nær þat er adr þvegið i volgu vatni. Sama dupt tekr sá veiki inn, líka vatn eda løg rótarinnar.

## Veg-breið, siá Grædi-súra.

CXXIII.

## Veg-arbi.

*Cerastium vulgatum, Myosotis arvensis.*
*Pentandria Monogynia.*

Nor. Løen-Arve, Vej-Arve.

Dan. Liden laaden Arve.

Þessi arbi, sem er lodinn, með hvitu blómstri, má brúkaz marinn til at leggia yfir



opin sár, til at græda þaug, og líka yfir þrota, at mykia hann.

Enginn peningr ett þessa urt, so eg hafi séd, og þat mun sannara, at hún se óholl innvortis.

## CLXXIV.

## Veggia = arbi.

*Polygonum aviculare. Centum - nodia officinarum. Octandria Trigynia.*

Nor. og Dan. Gønse = Græs.

Dan. Vey = Græs, hundrede Knuder, Gaard = Græs, Tramp = Græs.

Þydsk. Wege = Tritt, Wege = Gras.

Sumir kalla þessa urt raudan arfa, því hann hefir raudt og smátt blómstr.

Urtin þurkar og þerrar, hennar logr stemmir nasa = blód og blód = fall qvenna, nær klútr er vættr þar i og vidlagdr.

Rótin i miólk sodin og sú miólk druckin, brúkaz i Norvegi at stilla líf = syki.

Menn

Menn segaz hafa reynt, at þá þeir hafi at eins halldid þessari urt i hendi ser, til þess hún kólnadi, hafi þeim batnad nasadreyri.

Hæns og allir smá=fuglar sækia miøg at fræi þessarar urtar á haustin, og segir Hr. von Linne, at hvar þessi urt vex, megi þat kalla tytlinga kynsins akr, sem fadir vor himneskr hefir gefid því til framfæris, so hver spaurr hafi þar sinn forda, þó hvorki sái hann nie safni i hløður.

## CLXXV.

## Velants=urt.

*Valeriana officinalis. Triandria Monogynia.*

Nor. Vendel=Rood, Vendings=Rood.

Dan. Vild Baldrian, Valerian, Oyen=Rod, vild Nardus, Welantz=Urt.

Þydsk. Wilder Baldrian, Katzen=Wurtzel.

Þessa urt hafa nockrer kallad Talictrum alpinum. hennar seydi opnar og dreifir,



flytir þvagi og vall-gángi, læknar gulu, líka útvortis vidlögd gömul sár og brióſta-mein.

Þat eru ſagnir gamlar og hiátru, át þeſsi urt giöri fyri karlmenn og öll karlkend dyr.

Urtin þurkud og malin i dupt, blöndud ſo vid nef-tóbak, er halldid gott medal til at ſkerpa ſyn: ſama ſegia menn verki, ſe þetta i víni árla á morgna til ſín tekid, hálft qvíntin um ſinn; þvoi madr augun i ſeydinu af rótinni, verkar þat hid ſama; og er þá beſt at ſeyda rótina i öli.

Mölr fordaz þurkada velants-urt, þeſsi urt malin er lögd vid heima-komu, líka vid ſár, og læknar hún hvort-tveggia.

Blómſtr hennar blöndud vid þunna tioru, eru lögd vid malir kúa, þegar þær eru ſligadar, og kalla Normenn þat gott rád.

CLXXVI.

CLXXVI.

## Veroníka.

*Veronica officinalis. Thee Europæum vel norvegicum. Diandria, Monogynia.*

Nor. Busleik, Flesme-Græs, norsk Thee. Þydsk. Ehrenpreis. Dan. Ærenpriis.

Þessi urt hefir ei Íslendskt nafn, nema menn vili mynda þat eptir Dönskunni og kalla æru-prís, eins og Danskir hafa fengid henni nafn frá Þydskum.

Urtin er grædandi, bædi útvortis og innvortis, góð er hún vats-siúkum mönnum, örfar svita, læknar uppdráttar sótt, líka útbrot og kláda.

At brúka i thee stad er hún góð, og þó vid frekt samandragandi: hún vex sem optast her vestra i lág-lendis móum, eda breckum, hefir blátt blómstr.

 

Seydi af urtinni brúka Normenn at hella ofan i qvik=fenad, þegar honum verdr kránkt, eins sióda þeir graut, af blødum urtarinnar, med hafra=miøli, og leggia yfir kaun smalans. Tonning.

Sú er ønnur Veronica, sem er Erecta spicata, vex bædi her og vídast annar stadar, ecki nema á fiollum, og er hún besta saudfiar beit, hún er minni enn sú fyrri.

## CLXXVII.

## Vetrar = blóm.

*Saxifraga oppositifolia. Decandria digynia.*

Nor. Berg=Dusk.

Þetta vetrar=blóm hefir nafn af þvi, at þat kemr fyrst allra urta i blómstr á vori; enn hefir vidlíka verkan sem adrir steinbrytlar, eda Saxifragæ.

CLXXVIII.





## CLXXVIII.

## Vetrar=laukr.

*Pyrola minor ramosa. Pyrola floribus racemosis. Decandria Monogynia.*

Nor. Sau=String, Øien=Blomster.

Dan. Vinter grøn, Vinter=Lillie.

Þydsk. Winter=Grün.

Þessa urt kalla nockrir menn eptir Dønskunni vetrar lauk, og fylgir eg því nafni. Urtin er grædandi, bædi sem bakstr vidlögd og lika seydi hennar; þat segia menn at lækni bríóst=veiki og rirnunar sótt.

At tiggia þessa urt kallar Hr. von Linne ágætt læknis=medal fyrir augn=veika og vot=eygda menn.

Þegar menn þurka blød þessarar urtar, hallda sídan einu þessu bladi um stund i munni ser, og leggia þat þa yfir augad, er bestá og audfengnast medal vid sión=depru lærdra manna, sem sitia lengi, og lesa á

nætur



nætur vid liós, so þeir verda þar af raud-
eygdir og glám-skygnir. Idem.

CLXXIX.

## Vídar-móst.

*Lichen parietinus, imbricatus.*
*Cryptogamia.*

Nor. Gar-Mose, Huus-mose.
Dan. Guul-Muus, som voxer paa Træer
som en Skorpe.

Sv. Vægg-Mossa.

Þessi mosi vex á vidi og triá-bygging-
um, gulr med smáum hruckóttum bøldum,
sem skaraz hvort inn undir annad.

Hand-fylli af þessum mosa, taka
bændur i Norvegi, og sióda her um fiórda
part úr einum tíma i potti miólkur undir
þiettum hlemmi, sia sídan og drecka qvølld
og morgna einn the-bolla þar af; er þessu
medali miøg hrósad i móti gulu; þessi
mosi gefr og gulann lit; enn raudan saman

vid

vid 'geitaſkóf ellegar og ſo litunar moſa, ſem Normenn taka nú til at brúka. Von Línne.

## CLXXX.

## Vídir.

*Salix. Dioecia diandria.*

Nor. Selje, Vidie, Vie.

Dan. Vie = Træ.

Þydſk. Sal=Weiden.

Þatn af vídi inntekid, þerrar, kælir, ſefar loſta, og ſtillir blódlát. Vídir = tred ſiálſt má brúka til at ſægia á og hvetia mat= kníſa i brynis ſtad.

Ungr vídir er gott fódr, bædi nauta og ſauda, ſem ſitna vel áf honum, og fá þyckt ſkinn. Vídir = børkr ma brúkaz til at lita ſkinn.



Um blek-til-búning af sortu-lyngs legi með víðir leggium þar til, siá sortu-lyng.

Villi-ertur, siá Ertur.

Villi-laukr, siá Laukr.

Viola, siá Fiola.

CLXXXI.

## Umfeðming-gras.

*Vicia serpens, Cracca. Diadelphia decandria.*

Dan. og Nor. Fugle Vikker, Mus-Erter, Vey-græs, Vey-Flock:

Þydsk. Vogel-Wicken, Heck-Wicken, Wicken.

Þessi urt vermir, og hreinsar, og er nockuð samandragandi, er þá heil urtin þurkuð, malin i dupt, og þat til sín tekið: ellegar seyði hennar druckið, urtin er gott fóðr øllum fenaði.

CLXXXII.





CLXXXII.

## Unda = fífill.

*Hieracium præmorsum. Syngenesia polygamia æqvalis.*

Þessi jurt hefir somu eda mioglíka verkan og almennilegr fífill. Gulleitann blackann lit má úr fíflum fá, og nafnid sialft sýnir at urtin hefir verid brúkud til at græda undir og sár.

## Vog = súra, siá Grædi = súra.

## Vfiar, siá Leysinga = sly.

CLXXXIII.

## Páng.

*Fucus dichotomus. Cryptogamia.*

Ur þessu alkunnuga þángi giora Normenn graut, med einhorslags korn = tegund, og gefa hann kálfum eda svínum, og segia at þeir og þaug hafi vel vid á því.



Allt vaxtar-kyns, sem uti skal veriaz vetrar froste búa, menn hellst um med þessu almennasta fioru þángi, því þat er allvídast audfengid vid sió-siduna.

Til Elldsneytis brúka nockrir þetta þáng, enn þat gefr litinn hita, og þó ódaun i húsi þegar því er brent, og ósmeck matnum sem þar vid er sodinn.

Allt nytt þáng, se þat borid á tún edr aldin-garda, látid þar sidan fúna og geraz saman i haug til næsta árs, er hinn besti áburdr.

## Þáng-docka, siá Þursa-skegg.

## CLXXXIV.

## Þari.

*Fuci egestitii pelagici.*

Þari kallaz her allslags sióar-ávextir, sem rekr á land i sióar-gángi, og i vorri gómlu log-bók er sami skilningr þara nafnsins, enn tegundir þeirra ávaxta eru miog margar,

flestum

flestum ótelianlegar, máske og so fleiri enn ødrum lærdum mønnum utanlands eru kunnar, af þeim sem rekr her á land, úr voru opna nord-vestr hafi, þegar hafrót er; eg heyri og minna getid um fioru-gædi i kríngum Island, annarsstadar enn her á vest-fiørdum.

Parinn giørir mikid gagn vída her um plátz til vetrar beitar og nockrir bæir eru her i grend hvar menn kalla 18 vikna fiøru, og þar sem litid, og þó nockud, gagn þykir at fiøru 8 eda 6 vikna fiara: þat eru þeir bæir, hvorra fiøru mál liggr so vel vid þara rekanum, at fe á hvørium vetri lifir á hønum, þó jard-laust se 18-12-8-6 vikur; þegar þetta þara-rek bregst, verdr optast fiár-fellir á þeim bæum sem hanns var var von, því menn vænta hanns alltid.

Þat er ein gagnsemi þara beitar, at þarinn er salltr, lettr og giørir saudfenadi opid líf, þá þegar saudurinn fer á vori, i gott beitar land, er hann ordinn ger og



maga mikill, leggr sig þess betr til hagans og verdr fetiari haustit eptir.

## CLXXXV.

## Þöngull.

*Fucus selaginoides. Fucus, abies marina. Cryptogamia.*

Nor. Buſk-tang.

Þessir þönglar þurkadir eru brúkadir til ellds-neytis vída her vid sió-siduna, og gefa þeir meſtann hita, af ollu þángi, enn ólykt og ósmeck þeim mati sem þar vid er sod-inn, eins og annad þáng-kyn.

At ſkera þöngla i ſtóra bita og láta þá koma þar i jord, sem, madr ætlar ser at planta rætur þær, er ár um kríng eda lengr eiga i jørd kyrrar at ſtanda, hefir mer reynſt gott rád, þvi þeir kurfar súna og leysaz upp jafn ódum sem rótin heimtir næring; og hefir þat somu rok sem menn hafa ſkrifad um hræ ymsra dyra, grafid nærri úng-vidis rótum.





## CLXXXVI.

## Þrenningar=gras.

*Viola tricolor, foliis oblongis incisis. Herba & flos Trinitatis. Synegenesia monogamia.*

Dan. og Nor. Stifmoders og Stifmoors Blomster.

Þyðsk: Dreifaltigkeits=Blume, Freisam=Kraut.

Þessi þrilita fióla hefir ymist bla, raud hvít eda gul blómstr, stundum alla þessa liti isenn, eda tvo af þeim.

Urtin hefir sama krapt og adrar fiólur; þessari fiólu er serilagi eignadr sá kraptr, at hennar blóm=blod styrki hiartad, endurnæri og myki innvortis.

Háleygir lita rautt med rótum þessarar urtar.

## CLXXXVII.

## Þursa=skegg.

*Fucus barbatus vel ramentaceus.*

Nor. Børst=Slinka, Ross=Tagl.

Þetta þáng=kyn má brúkaz eins og mar=prádr, og þar at auki giora nockrir af þeí viskur at sopa med bord.

 

CLXXXVIII.

# Æti=sveppr.

*Fungus esculentus campestris, vulgatissimus minor agaricus, Amanita.*

Þessi sveppr er flatr og liós=raud leitr ofan, enn hvitr nedan; hann er matgiordr eins og reydi kula.

Varla vex þessi sveppr, nema i mögru hall=lendi, hellst i forsælu, hann er fastr i ser, og lyktar vel.

CLXXXIX.

# Æti=þáng.

*Fucus dichotomus, caule & vesiculis angustis coriaceis fimbriatis.*

Þetta þáng er líkt hrossa=þángi, enn er nockud gul=leitara, og er etid i hardindum af fátætu folki; er þá þetta þáng afvatnad, ei skemr enn tvo daga, sídan saxad og sodid i súru, líka miöl=kastad, ef at miöl er

til

til, og myndi þat betra af rúgi, enn ødru korni; korn-súru miøl væri þar og hentugt til.

Sú matskapan af þángi, myndi á rædilegri, at afvatna þat vel, þurka sídan til fulls, mala og brúka þá saman við korn-miøl til brauda eda grauta.

CXC.

## Æti-þari.

*Cryptogamia, (per totum.)*

Þessi þari finst opt innan um annann þara i sióar hrønnum, og telst her vída einn besti partr þess, sem vorra kyrkna máldagar kalla fiøru-gædi.

| | | |
|---|---|---|
| þan er: Reima-þari | - - ádr talinn | 133 |
| Kerlingar-eyra | - - ádr talid | 51 |
| Marikiarni | - - - ádr talinn | 109 |

Bialla, hún er nedri partr marikiarnans.

Allar þessar tegundir matbúaz eins og æti-þáng, og allar þær eru betri til mann-elldis enn æti þángid, sem einasta lengir líf manns i húngurs tíd.



# Eftir-máli.

Fyrir utan þat sem her er sagt um hvoria jurtsfyri sig, þá kann madr finna nockrar almennilegar reglur um þeirra eiginlegleika.

1) Barkandi edr bindandi urtir (adstringentes) eru þær, sem verka þat, at vøkvarnir þyckna, þær þeckiaz flestar af sínum barkandi smeck, eru allar óhollar þeim mønnum, sem skirbiúgr edr holdsveiki kreinkir, þær lækna líf-syki. Margar af þeim greida hland-rás og hleypa miólk. A medal innlendra urta, sem þess-lags eru, teliaz svína-rótin, hiart-arfa-, muru- og korn-súru- rætur vats-arba, reynis- suru- hiart-arba-fræ, samt allir blada-mosar (lichenes.)

2) Urtir, sem brióst-veiki lækna (pectorales, expectorantes) brukaz eptir alldri manna, annadhvert heitar i medal-lagi, eda kalldar; heitasta brióst-urt vor er blód-berg,

urt vor er blóðberg, kalldari eru, kál=næpur, hófblaka, Veronica.

3) Urtir sem hiartad styrkia (Cordiales) giøra blódid betr fliótandi, þær veria óhollu lopti og eitri; eru corroborativæ, alexipharmacæ, bæta kraftaleysi líkamans, hafa allar sterka lugt; þar til heyra einiber, kumen, hvannar= og sæhvannar=rót; se blódid of=þunt, edr i ólgu, má ei brúka þær.

4) Urtir, sem høfud styrkia (cephalicæ) eru næsta því hinar somu, sem strax vóru taldar, þær leida tídir qvenna, og hafa allar sterka aromatiska krydd lygt, eins og hinar fyrr=tóldu.

5) Opnandi jurtir (aperientes) eru þær sem greida rensli vokvanna, og opna hvad tept var, þær koma blódinu i fliótari gáng, og er þeirra brúkun þá hentug, er madr hefir ádr purgerad, og látid sídan æda blód, ellegar badaz i varmri laug, so gróvustu vessar minki nockud. Her til heyra þær urtir sem ørfa svita, hland=rás og tídir

 qvenna,



6) Urtir, sem uppsølu verka (vomitivæ) hafa þar fliótustu og þørfustu verkan, sem nockud ómolltid eda skadlegt er i maga manns; þessar urtir lækna opt búk-hlaup og blódgang, sem af hráa magans kemr, og hreinsa heilann um leid. Betra er at láta æda blód, ádr enn madr brúkar þær, og þó er hvørugt gott, ef madr er miøg ørmagna ádr, þessar urtir høfum ver fáar inlendar, nema hellu hnodri er ein af þeim, og hrafnablød-kur, at nockru leiti.

7) Svæfandi urtir (Narcoticæ, Hypnoticæ) þær megu ecki sangviniskir menn brúka, og einginn mikid af þeim, þær verka vidlíka og ofdryckia verkar eptir á. Flestar þær eru eitr, ef madr tekr af þeim mikid um sinn, þær lina verki útvortis vidlagdar. Fyrir utan ádr taldar svæfandi urtir er tóbak sú aud-fengnasta og sterkasta jurt þess-slags.

8) Kølldu líknar urtir (febrifugæ) eru flestar beiskar og bindandi, þær verma magann, og koma vessunum i hræring, er því betra

betra at eyda þeim nockud fyri framm. Malurt og múra eiga her heima.

9) Kælandi og hressandi jurtir (refrigerantes) sefa ólgu blóds, þessar eru: lattuka, súra, jardber, bláber, fíflablød, arbi.

10) Lifrar og milltis urtir (Hepaticæ, Splenaticæ) heyra til þeim opnandi jurtum; því þær opna gáng lifrar og milltis, og verka þar med i øllu blódinu. Malurt, súru-rót og netla heyra þar til.

11) Magann styrkia (Stomachicæ) þær sem verma magann, eru flestallar beiskar, skarpar, aromatiskar, þar til reiknaz Veronica, hvønn, einiber.

12) Þær sem reka orm frá mønnum (antiverminosæ) eru allar beiskar, her til heyra einkanlega remmublød og laukr.

13) Augnaveiki lækna (ophthalmicæ) þær urtir sem eru beiskar og barkandi, augnafro, raudi arbin &c.

14) Eyrna-veiki lækna (othalgicæ) mykiandi jurtir, anis, kúmens, hvanna-fræ.

15)



15) Tannverk lækna (odonthalgicæ) þær sömu urtir sem eru svæfandi, barkandi, og eiga vid skirbiúgi.

16) Purger-urtir (purgativæ) hreinsa alla ölldu og fúlu úr maganum, þær verka lika i öllu blódinu, því brióst-mylkingar purgera, þegar fóstran hefir inntekid purger-med-öl; þar til heyra fysla blod, og hellst strand-kál, himinnióla rót og lifia-gras.

17) Grædi-jurtir (vulnerariæ) lækna út-vortis sár, þat kendi mönnum reynslan, og þá fóru menn at brúka þær vid innvortis sárum, hellstar þeirra eru mura, Veronica, vallhumall, grædi-súra, miadurt, blágresi, þessar urtir dreckaz sem thee, hvor fyri sig, eda margar saman, eptir fall, slag hrædslu, meidsl eda marid.

18) Skirbiúgs-urtir (antiscorbuticæ) bæta blód, jafna þat og þynna; enn þat blód, sem rennr ur skirbiúgs-, edr hölds-veikum mönnum, þegar þeim opnaz æd, er skilid eda hlaupid, svart, i grósum klump-um

um eda hnettum, vatnid ofaná því hefir skarpan seltu smeck, þessa bresti blódsins bæta skarfakál, súra, hrafna klucka, mustardr.

19) Nidr falls sótt lækna (antiepilepticæ) þær urtir sem þynna og hreinsa blódid.

20) Nockrar urtir draga hraka og slim (mastigatoriæ, apophlegmatizantes) þær eiga at tiggiaz, og eru þær þá bítandi og heita munninn; þær bæta þá líka tann-pínu, skirbiúg i munni, festa tennur, þær eru þá gódar vid svima, minnis-leysi, of-svefni, votum augum; engifer, tóbak, mustards og skarfakáls blod og rætur heyra her til.

21) Svita-urtir, (diaphoreticæ) þær somu, sem eru opnandi, eiga alldrei at brúkaz i upphafi hættilegra sótta, og ecki helldr hvar blódríkr madr a i hlut; slíkar eru margar ádr talldar.

22) Tídablód hreinsa (Emmanagogæ), eru þær og so opnandi; þar eiga hlut at, hrafna blokur, malurt, enn allra helst sæhvonn.



23) Blodrur-giøra (Veſicatoriæ) þær ſem vegna ſkerpu ſinnar eta um ſig i húdinni; ſoleyg verkar þat beſt af øllum innlendum urtum.

24) Hland-ſtemmu lækna (diureticæ) þær ſømu, ſem gódar eru vid vats-ſótt, eru ohollar þeim ſem hafa mikid og þunt blód, því þær þynna blodid: her eiga heima malurt, humall, einiber, anis, kumen; þær kalldari, ſem brúkaz i brennandi þorſta og heitri kolldu eru: ſúra, lattuka, og allar ſúrar urtir.

25) Vindi eyda i idrum (Carminativæ) og eru hollar fyri magann, þær ſem hafa bitrann og beiſkann aromatiſkann krydd-ſmeck, þeſsar eru, malurt, blodberg, kumen ꝛc.

Þetta er at meſtu leiti tekid úr Hr. v Aphelens Hiſtoria naturali, enn hann qvadſt tekid hafa af forſøgnum Hr. Bernards de Juſſieu, ſem var urtagards madr Fracka-Kóngs.



Regiſtr



# Registr
yfir
## framanskrifud islendsk Urta-Nøfn.





Birki

Fard-

Q Gell-





Himin=

Lións-

Púnga=





Tadʼ



Annad



# Annad Registr
yfir
## framanskrifud látinsk Urta-Nøfn.





Alga

Bellis





Carum,





Echium





Fucus





Gratia





Ranun





Talie-







Pridie



# Þridia Registr
yfir
# Verkan Þessara-Urta.






Blóds-





Dreyra





Fóstri




Gult





Hland-

Hudlaust





Kopar-





Rinunar





Tak=




Verrk

| | |
|---|---|
| Verki linar | 21, 40, 74, 149. |
| Vermandi jurtir | 5, 21, 163, 181. |
| Vermibeds-efni | 87, 156. |
| Vidsiniør þef-gott | 90. |
| Vidr besti innlendr vidr | 135. |
| Vindi eydir i maga manns | 72, 89, 163. |
| Viskur til borda og gólfa | 187. |
| Visnun læknar | 24. |
| Vog dregr | 35. |
| Vørtur losar | 36, 67, 92. |
| Þak a hús | 159 |
| Þletta, siá Súr-miólk. | |
| Þorsta stillir | 72, 13, 162. |
| Þreytu ver | 62. |
| Þrota dreifir | 15, 63, 64, 92, 173. |
| Þvag-stemmu lækna | 5, 58, 76, 175. |
| Siá Hland-stemmu. | |
| Þúngadar konur varis | 63, 64. |
| Þúnglyndi bæta | 5, 24, 34, 62, 95, 96, 172. |
| Þvari i holgrafin mein | 35, 128. |
| Þvøgu efni | 116, 128. |
| Ædi læknar | 34, 73. |
| Æd þverskorna stemmir | 45. |
| Æti-sveppar | 13, 88, 134, 188. |
| Æti-þáng | 133, 189. |
| Æti-þari | 81, 109, 190. |
| Ærli, siá Hnútar. | |

Til

Herr

Conferentzraad Erichsen.

# Há-velborne Herra!

Þegar eg feck at siá Ydar Hávelborinheita bók Íslands opkomst, hreifdi ser vidqvæmlega hiá mer nýr Þanki um skylldu þá er sú jørd á at mer, er hefir fædt mig og alid: eg fór at huxa framm á máltækid, litid er betra enn ecki, nema illt se: Því villda eg vidleitni sýna. Í Þær mundir eda litlu seinna barz mer ydar Hávelborinheita náduga skrif og skipan, at eg skyllda rita nockud, Þat bæta mætti hag fátækra og fáfródra landsmanna. Frá slikum manni, sem ydar Hávelborinheitum, mátti Þetta ei annad, enn miklu valda, til vidstodulausrar hlýdni. Þó hefir Þat dregiz fyrí mer, Því á medan mer vanst hand-afli til

nockurrar

nockurrar starfsemi, neytta eg hans med mínnum tíu fingrum; enn sídan þeirri atorku er lokid. neyti eg þriggia fíngra at eins til pennans, og þeirra verk er bæklingr þessi, sem eg dirfiz nú at leggia undir ydar hávísa yfirskodan, i því trausti, at tiltæki mitt virdiz vel. Láti Gud ydar Hávelborinheit lengi lifa, og nióta verdugs soma og sælu alla æfi! Island at sælla fyrir Ydar rád og forsión! Þess metr sig einnin at sællri.

Ydar Hávelborinheita

Saudlauksdal vid Patriksfiörd
18 Aug. 1781.

auumiúkasti þienart

Biörn Halldórsson.

P. M.

Sva er Profastrinn Sira Biørn þióðkunnr at mannkostum og lærdomi, eigi einungis uti á Islandi og vídar her i rikiunom, helldr og einnig um sudr lønd og vestr á Franz, at eigi þarf eg leita hanum, ne riti hans, lofs med línum þessum. Enn skylldan bydr mer aludligast at þacka vinsamligt ávarp hans til mín i fyrirfaranda brefi, og elska

fødrlands-

Fødrlandsins at óska af alhuga, at landar vorir meig sva hagnyta ser bókina, sem innihalld hennar í siálf ser er at øllu ágiætt, nytsamlegt og næsta naudsynlegt.

Kaupmannahøfn,
þann 19 Jul. 1782.

J. Eiriksson.

